hana, þá mun eg fara til með fleiri menn og taka hana sjálfur, og mun honum falla það sárara". Þá hann hafði sagt þetta, og bætt á ofan þessum hótunarorðum, þá lèt hann þá fara; geingu þeir ófúsir eptir strönd hins ófrjófa hafs, og komu til búða og skipa *Myrmídóna*. Þeir fundu *Akkilles*, þar sem hann sat hjá búð sinni og hinu svarta skipi; varð hann lítt feginn, er hann sá þá. Kallararnir numu staðar af ótta og lotníngu fyrir konúnginum, urpu ekki orði á hann og spurðu einskis. Hann vissi, hvert erindi þeirra mundi vera, og mælti: „Komið heilir, kallarar, þèr sendiboðar *Seifs* og manna! Gángið nær! Eg á einga sök á ykkur, heldur á *Agamemnoni*, sem sendi ykkur til að sækja meyna *Brísesdóttur*. Heyr þú, seifborni *Patróklus*, leiddu meyna út, og fá þeim í hendur. Því, fari svo, sem eg ætla, að eitt sinn verði þörf á mèr síðar, til að verja aðra fyrir illum óförum, þá skulu þeir báðir vera sjálfir vitni fyrir hinum sælu guðum og fyrir dauðlegum mönnum og fyrir þessum hinum harðráða konúngi; því sannlega æðir hann nú með fársfullum huga, og hefir hvorki þá fyrirhyggju nè framsýni, sem þyrfti til þess, að *Akkear*, er hann á yfir að ráða, mættu verja skip sín án manntjóns". Svo mælti hann, en *Patróklus* gerði, sem vinur hans bauð, leiddi hina kinnfögru *Brísesdóttur* út úr búðinni, og fèkk þeim í hendur. Fóru þeir nú aptur til skipa *Akkea*, og gekk konan með þeim, þó henni væri það nauðugt. Þá grèt

*Akkilles.* Hann skildist þegar við fèlaga sína, og settist á strönd hins gráa sæfar og horfði út á hið dimmbláa haf. Hann rètti út hendur sínar, og bað ákaflega til móður sinnar: „Móðir mín, fyrst þú ólst mig skammlífara en aðra menn, þá átti þó *Ólymps-guð,* hinn háþrumandi *Seifur,* að veita mèr sæmd að minnsta kosti. En nú hefir hann ekki veitt mèr hinn minnsta sóma, þar sem hinn víðlendi *Agamemnon Atreifsson* hefir svívirt mig, er hann hefir nú komið höndum á heiðursgjöf mína, er hann hefir af einræði sínu látið taka frá mèr". Þannig mælti hann, og feldi tár. En hans tignarlega móðir heyrði til hans, þar sem hún sat í sjáfardjúpinu hjá sínum aldraða föður. Hún skauzt skyndilega upp af enum gráa sæ, sem þoka, og settist frammi fyrir honum, þar sem hann jós út tárum; hún klappaði honum með hendi sinni, tók til orða og mælti: „Hví grætur þú, barn? Hví sækir harmur heim hjarta þitt? Seg mèr alt af lètta, og leyn eingu af, svo við vitum bæði". Hinn fóthvati *Akkilles* andvarpaði þúngan og sagði til hennar: „Þú veizt það. Hví skal eg segja þetta, þar sem þú veizt alt? Vèr fórum til *Þebu,* ennar helgu *Etjóns*-borgar, rændum hana, og tókum þaðan alla fjárhluti; skiptu synir *Akkea* þeim að jafnaði milli sín, en völdu *Atreifssyni* af óskiptu hina kinnfögru *Krýsesdóttur. Krýses* var hofgoði hins lángskeyta *Appollons,* hann kom til enna gángfljótu skipa hinna eirbrynjuðu *Akkea,* vildi hann leysa

út dóttur sína, og hafði með sèr ógrynni lausnarfjár; hann hèlt upp kórónu hins lángskeyta *Appollons* á gullnum sprota, og bað alla *Akkea,* en einkum báða *Atreifssonu,* er rèðu fyrir hernum. Gerðu þá allir *Akkear* góðan róm að máli hans, og kváðu, að gera skyldi virðulega til hofgoðans, og þiggja hið fríða lausnargjald. En *Agamemnon Atreifsson* lèt sèr það ekki líka, heldur vísaði hann goðanum burt með smán, og lagði ógnarorð á ofan. Fór hinn aldraði maður svo burtu, að hann var reiður, og hèt á *Appollon. Appollon* heyrði bæn hans, því hann var honum mjög kær. Hann skaut hættulegu skeyti á *Argverja,* og fèllu menn þá hverr á fætur öðrum; flugu örvar guðsins alla vega um hinar víðu herbúðir *Akkea.* En spámaður nokkurr, sem vel var að sèr, sagði oss spádóma hins lángskeyta guðs; varð eg þegar fyrstur til, og lagði það til, að mýkja skyldi reiði guðsins. En þá brást *Atreifsson* reiður við, stóð upp þegar, og hótaði því, sem nú er fram komið; því enir snareygu *Akkear* flytja nú meyna á örskreiðu skipi til *Krýsiborgar,* og færa hinum volduga guði fórnir; en kallarar geingu nýlega frá búð minni, og höfðu burt með sèr *Brísesdóttur,* er synir *Akkea* höfðu gefið mèr. Hjálpa þú nú þínum hrausta syni, því þess ertu megnug. Far til *Ólymps,* og bið *Seif,* svo framarlega sem þú hefir nokkuru sinni gladt hjarta hans í orði eða verki; því opt heyrði eg þig hrósa því í húsum föður míns, að þú kvaðst alein hafa

komið *Kronussyni*, svartskýa-guði, úr óhaglegu vandræði meðal hinna ódauðlegu guða, þegar hin önnur *Ólymps*-goð vildu leggja fjötur á hann, bæði *Hera* og *Posídon* og *Pallas Aþena*. Gekkstu þá til, gyðja, og frelsaðir hann frá fjötrunum, því þú hafðir kallað upp á hinn háfa *Ólymp* þann hundraðhenda risa, er guðirnir nefna *Bríarós*, en allir menn kalla *Egeon;* sá var og að kröptum enn meiri, en faðir hans. Hann settist hjá *Kronussyni*, dáðum-hróðugur, urðu hinir sælu guðir smeykir við hann, og lögðu ekki fjöturinn á *Seif*. Minn hann nú á þetta, sezt hjá honum og umfaðma knè hans; má vera, að hann vilji þá á einhvern hátt hjálpa *Trójumönnum*, en reka *Akkea* að skutstöfnum skipanna og að sjó fram, og láta þá drepast þar niður, svo þeir allir njóti konúngs síns, og svo hinn víðlendi *Agamemnon Atreifsson* kannist við glæpsku sína, er hann virti einskis, þann er hraustastur var af *Akkeum*". *Þetis* svaraði honum grátandi: „Æ, hví fæddi eg þig upp, barn mitt, er eg ól þig svo illu heilli? Eg vildi óska, að þú sætir ógrátinn og vansalaus hjá skipum þínum, úr því þèr átti skammra, og ekki lángra lífdaga auðið að verða. En nú ertu orðinn ekki að eins skammlífur, heldur og ógæfusamastur allra manna; hefi eg því illu heilli alið þig í húsum mínum. Nú skal eg fara sjálf til hins snjófga *Ólymps*, og nefna þetta fyrir þig við hinn þrumuglaða *Seif*, ef hann vill verða við bón minni. En þú skalt nú sitja hjá hinum örskreiðu skipum,

og alt af vera reiður *Akkeum,* og halda þèr með öllu frá styrjöldinni. Því *Seifur* fór í gær út að *Jarðarstraumi* til enna ágætu *Epíópa,* og situr þar að veizlu, og allir guðirnir með honum. Mun hann koma aptur til *Ólymps* á 12. degi; þá skal eg fara fyrir þig til ennar eirföstu hallar *Seifs* og knèfalla honum, og vona eg, að hann verði við bón minni". Þá hún hafði sagt þetta, gekk hún burt, og skildi hann þar eptir reiðan í huga sökum hinnar fagurbeltuðu konu, er frá honum hafði tekin verið með valdi nauðugum.

Nú kom *Odysseifur* til *Krýsiborgar* með hina helgu hundraðsfórn. En er þeir voru komnir inn á hinn djúpa vog, tóku þeir saman seglin, og lögðu þau niður í hið svarta skip, lètu síðan siglutrèð síga niður á framstögunum og hleyptu því skjótlega í siglustokkinn; þá rèru þeir skipinu upp að lendíngunni, köstuðu út stjóra og bundu skutfestar, fóru svo sjálfir út í sjáfar-lána, og tóku upp úr skipinu hundraðsfórn þá, er ætluð var enum lángskeyta *Appollon.* Þá steig og *Krýsesdóttir* á land af hinu haffæra skipi, og leiddi hinn ráðagóði *Odysseifur* hana að blótstallanum, fèkk hana í hendur föður hennar, og mælti til hans: „*Krýses!* Herkonúngurinn *Agamemnon* sendi mig til að færa þèr dóttur þína, og til að fórna *Febusi* helgu hundraðsblóti fyri hönd *Danáa,* að vèr mýkjum reiði hins volduga guðs, sem nú hefir látið *Argverjum* sára harma að hendi bera". Að því mæltu

fèkk hann hana í hendur honum, en hann tók fagnandi við dóttur sinni. Síðan skipuðu þeir hinni frægu hundraðsfórn umhverfis í kríng um hinn velhlaðna blótstalla, og lètu hvert blótdýr standa við hlið annars; því næst þógu þeir hendur sínar og tóku upp blótbyggið; þá fórnaði *Krýses* upp höndum og bað rækilega fyrir þeim: „Heyr bæn mína, *Silfrinbogi,* þú sem ert á gángi kríng um *Krýsiborg* og hina sannhelgu *Killiborg,* og ræður voldulega yfir *Tenedus-ey!* Fyrr meir, þá eg hèt á þig, heyrðir þú bæn mína, veittir mèr sóma, og gerðir *Akkeum* mikið manntjón. Veit mèr og enn að þessu sinni þessa ósk mína: afstýr nú loks hinu illa fári frá *Danáum*". Þessum orðum baðst hann fyrir, og heyrði *Febus Appollon* bæn hans. En er þeir höfðu beðizt fyrir og dreift blótbygginu, þá hnakkakertu þeir fyrst blótdýrin, skáru þau svo á háls og flógu, þá skáru þeir úr lærbitana, huldu þá í mör og lètu tvö vera mörlögin, lögðu svo hráa bita þar ofan á. Þetta brendi hinn aldraði maður yfir skíðum, og dreypti þar yfir skæru víni, en sveinar stóðu hjá honum og hèldu á fimmyddum eldskörum. En er lærbitarnir voru brunnir, og menn höfðu etið iðrarnar, þá brytjuðu þeir hitt kjötið, stúngu því upp á teina og steiktu gætilega, og tóku svo alt af teinunum. En er þeir höfðu lokið því starfi, matreiddu þeir og settust að veizlu, og skorti ekkert, það er ákjósa mátti að skamtveizlu. En er þeir höfðu sadt lyst sína á mat og

drykk, fyltu sveinarnir skaptkerin á barma með drykk, skeinktu á drykkjarkerin til dreypifórnar handa hverjum og skömtuðu öllum. Sveinar *Akkea* blíðkuðu guðinn með saung allan daginn, kváðu fagurt þakkarkvæði og súngu enum fjærvirka guði lof, en hann hafði gaman af að hlýða þar á. En er sól var runnin og rökkur á komið, lögðu þeir sig til svefns hjá skutfestum skipsins. En er hin árrisula, rósfíngraða *Morgungyðja* kom í ljós, fóru þeir aptur til hinna víðu herbúða *Akkea;* sendi hinn fjærvirki *Appollon* þeim hagstæðan byr. Þeir reistu siglutrèð, og breiddu út hin hvítu segl; þandi vindurinn seglin milli jaðra, en mórauð bylgjan glumdi hátt í kríng um stefnið, þá skipið gekk, en það hljóp eptir öldunni og fór leiðar sinnar. En er þeir komu til hinna víðu herbúða *Akkea,* settu þeir hið svarta skip á land, hátt upp á sandana, og reistu undir það lángar skorður; en sjálfir fóru þeir, síns vegar hverr, til búða sinna og skipa.

En hinn fóthvati *Akkilles, Peleifs* seifborni sonur, sat hjá hinum örskreiðu skipum, og var alt af reiður. Hvorki gekk hann nokkuru sinni á mannamót, nè í orustu; hann mæddi hjarta sitt á því að vera kyrr á sama stað, en ávalt lángaði hann eptir hergný og styrjöld. En er kominn var hinn 12. dagur þaðan frá, fóru hinir eilífu guðir allir saman upp til *Ólymps,* og gekk *Seifur* á undan þeim. *Petis* gleymdi ekki erindum sonar síns; hún kom upp úr bylgju sjáfarins, og gekk árla

morguns upp á hinn háfa himin og til *Ólymps.* Hún fann hinn víðskygna *Kronusson,* þar sem hann sat einn sèr á efsta hnúki hins tindótta *Ólymps.* Hún settist frammi fyrir honum, ok tók vinstri hendi um knè hans, en hægri hendi tók hún undir höku hans; hún bað hinn volduga *Seif Kronusson,* og mælti: „Faðir *Seifur,* hafi eg nokkuru sinni veitt þèr fulltíngi í orði eða verki meðal hinna ódauðlegu guða, þá veit mèr þessa bæn mína: veit syni mínum, sem allra manna er bráðfeigastur; hefir nú herkonúngurinn *Agamemnon* gert honum þá vansemd, að hann heldur hjá sèr og vill ei aptur skila þeirri heiðursgjöf, er hann hefir af einræði sínu tekið frá honum. Veit þú honum þó sóma, *Ólymps*-guð, ráðvísi *Seifur:* lát *Trójumönnum* veita betur, uns *Akkear* virða son minn, og sýna honum meiri sóma, en áður". Þannig mælti hún, en *Seifur* skýbólstraguð ansaði henni eingu, heldur sat leingi og mælti ekki; en *Þetis* hèlt fast sömu tökum og hún hafði tekið um knè hans, og tók aptur til orða: „Lofa þú mèr þessu með vissu og hneig höfði til, eða neita því með öllu, því nú þarftu eingan að óttast; má eg þá gjörst vita, hversu eg hefi minnsta virðíngu allra guða". *Seifi* skýbólstraguði varð mjög þúngt í skapi, og mælti til hennar: „Ílt mun af því hljótast, ef þú kemur mèr til að fjandskapast við *Heru,* því hún mun erta mig með brigzlyrðum. Hún átelur mig jafnan, hvort sem heldur er, meðal hinna ódauðlegu guða,

og kveður mig veita *Trójumönnum* lið í orustunni. En far þú nú burt aptur, að *Hera* verði þín ekki vör, en eg mun láta mèr um hugað, að koma þessu til leiðar. Heyrðu! ef þú vilt, þá skal eg hneigja niður að þèr höfði mínu, svo þú trúir; því það er sú skírasta jarteikn, er eg má veita með hinum ódauðlegu guðum, því hverju sem eg heit með hneigðu höfði, það má eigi aptur takast, og eigi verða að hègómamáli eða lokleysu“. Að því mæltu hneigði *Kronusson* hinum dökkvu brúnum sínum; hreifðust þá enir himnesku lokkar á hinu ódauðlega höfði ens volduga guðs; og þá skelfdi hann hinn háfa *Ólympus*. Nú sem þau höfðu ráðið þetta með sèr, skildu þau: stökk *Þetis* ofan af hinum skínanda *Ólympi* niður í hinn djúpa sæ, en *Seifur* gekk til hallar sinnar; risu þá upp allir guðir í einu úr sætum sínum, til að gánga móti föður sínum, og þorði eingi að vera kyrr í sæti sínu, þá hann kom, heldur geingu allir til móts við hann. Settist hann svo þar í hásæti sitt. Jafnskjótt og *Hera* sá hann, vissi hún, að hin silfurfætta *Þetis*, dóttir hins aldraða sjáfarguðs, hafði verið á tali við hann um einhverjar ráðagjörðir. Talaði hún þegar til *Seifs Kronussonar* þessum móðgunarorðum: „Hverr guðanna hefir enn verið í ráðagjörðum með þèr, vèlráður? Jafnan er þèr kært, að ráða launráðum á bak við mig, og enn hefir þú ekki feingið af þèr, að segja mèr af alhuga, hvað þú hafir í hyggju“. Faðir manna og guða svaraði henni: „Ekki skaltu

ætlast til þess, *Hera,* að þú fáir að vita allar ráðagjörðir mínar; það mun ekki vera svo holt fyrir þig, þó þú sèrt húsfreya mín. Sèrhverja þá ráðstöfun, sem heyra má, hana skal eingi fyrr fá að vita en þú, hvorki guðir nè menn; en ekki skaltu spyrja eða forvitnast um þær ráðstafanir mínar, sem eg vil gera á laun við guðina". Hin mikileyga drottníng *Hera* svaraði honum því næst: „Þú harðráðasti *Kronusson,* en að þú skulir mæla slíkum orðum! Fjærri fer það, að eg sè með jafnaði vön að spyrja þig eða forvitnast um nokkuð; mátt þú gjarna ráða í náðum fyrir mèr, hverju sem þú vilt. En nú em eg mjög hrædd um, að hin silfurfætta *Þetis,* dóttir hins aldraða sjáfarguðs, hafi blekt þig með vèlum; því hún sat hjá þèr í morgun og hèlt um knè þín; grunar mig, að þú hafir heitið henni fastlega með hneigðu höfði, að þú viljir rètta hlut *Akkils,* en týna mörgum *Akkea* við skipin". *Seifur* skýbólstraguð svaraði henni og sagði: „Undarlega kona, ávalt grunar þig eitthvað, og ekki fæ eg dulizt fyrir þèr. Þó muntu eingu fá áleiðis komið fyrir það, nema þú munt verða mèr enn fjær skapi, en áður, og muntu þar hafa verr af; því auðvitað er, að sè þetta, sem þú segir, þá hlýtur það að vera vilji minn. En ger nú, sem eg segi þèr: sezt niður, og mæl ekki orð; því ella er hætt við, að þèr verði það ekki að liði, þó allir þeir guðir, sem á *Ólympi* eru, komi til, ef eg fer að leggja á þig hinar óárennilegu hendur mínar". Þannig mælti

hann, en hin mikileyga drottníng *Hera* varð hrædd; hún beygði lund sína, settist niður og mælti ekki orð; en guðirnir, himinsbúar, voru með þúngu skapi í höll *Seifs*. Þá tók fyrstur til máls *Hefestus*, hinn frægi hagleiks-guð, því hann var meðmæltur móður sinni, hinni hvítörmuðu *Heru*: „Ílt mun af því hljótast, og óbærilegt mun það verða, ef þið tvö deilið svo um dauðlega menn og vekið hávaða meðal guðanna, og verður þá eingi skemtun að góðri veizlu, þegar það ræður meira, er verr gegnir. Nú vil eg ráða móður minni, þó hún hafi sjálf vit á því, að hún láti til við *Seif*, föður minn, svo faðir minn fari ekki aptur að deila og spilli svo veizlunni fyrir oss; því hægt veitir hinum ólympska eldíngaguði, að hrinda oss úr sætum, ef hann vill, því hann er vor miklu máttugastur. Far þú heldur að honum með mjúkum orðum; mun þá hinn ólympski guð brátt verða oss miskunsamur“. Þá hann hafði þetta mælt, spratt hann upp, og rètti tvíker að móður sinni, og sagði til hennar: „Vertu þolinmóð og hughraust, móðir mín, þó þú eigir bágt, svo eg ekki horfi á það með augum mínum, að þú, sem ert mèr svo kær, verðir slegin: mun eg þá alls ekki lið mega veita þèr, hversu sárt sem mig tekur til þín; því torvelt er að setja sig á móti hinum ólympska guði. Því það var einu sinni forðum, þegar eg vildi hjálpa þèr, að hann tók í fót minn, og kastaði mèr út af hinum himneska þröskuldi; var eg allan daginn á fluginu, og lenti um

sólarlag niður í *Lemney;* var þá lítið líf í mèr. *Sintíar,* sem þar bjuggu, tóku mig upp, þar sem eg lá fallinn, og hjúkruðu mèr". Þannig mælti hann, en hin hvítarmaða gyðja, *Hera,* brosti, og tók brosandi við kerinu af syni sínum. En hann jós hið sæta ódáins-vín af skaptkerinu, og skeinkti öllum hinum öðrum guðum til hægri handar. Kom þá upp óstöðvandi hlátur með hinum sælu guðum, er þeir sáu *Hefestus* þjóna sem frammistöðumann í höllinni. Þannig sátu þeir þá að veizlu allan daginn til sólseturs, og var einskis vant að skamtveizlu þeirri: þar var hljómfögur harpa, hèlt *Appollon* á henni, og þar voru saunggyðjurnar; þær súngu með fagri rödd, og svöruðu hvor annari á víxl. En er hið skæra sólarljós var geingið undir, geingu þeir til hvílu, og fór hverr heim til sín, þar sem hinn víðfrægi fótlamur, *Hefestus,* hafði smíðað hverjum herbergi af hugvitsömum hagleik sínum. En *Seifur,* hinn ólympski eldíngaguð, gekk til rekkju sinnar, þar sem hann jafnan var vanur að hvíla, þegar sætur svefn rann á hann; stè hann upp í rekkjuna og ætlaði að sofna, og *Hera* gullinstóla hjá honum.

# ANNAR ÞÁTTUR.

*Draumurinn. Beóta-bálkur, eða skipatalið.*

Allir guðir og hermenn sváfu af um nóttina, nema *Seifur;* hann gat eingan blund fest, því hann var að velta því í huga sèr, hversu hann mætti rètta hlut *Akkils* og láta marga af *Akkeum* falla hjá skipunum. Leizt honum þá ráðlegast, að senda *Agamemnon Atreifssyni* hinn meinsama *Draum;* talaði hann þá til *Draums* skjótum orðum og mælti: „Heyr þú, meinsami *Draumur,* far þú til enna fljótu skipa *Akkea,* gakk til búðar *Agamemnons Atreifssonar,* og seg honum greinilega alt, það er eg legg fyrir þig. Seg honum að herbúa hina hárprúðu *Akkea* sem ákaflegast; mun hann nú fá tekið hina strætabreiðu borg *Trójumanna,* því hinir ódauðlegu guðir, er búa í *Ólymps* höllum, eru nú ekki leingur sundurþykkir; hefir *Hera* snúið hugum þeirra allra með bænum sínum; eru nú *Trójumönnum* búnar miklar mannraunir“. Þannig mælti hann, en *Draumur* fór af stað, þá hann hafði heyrt þessi boð. Hann kom skjótt til enna fljótu skipa *Akkea;* hann gekk til *Agamemnons Atreifssonar,* og fann hann sofandi í búð sinni; hafði himneskur svefn breidt sig yfir hann allan. Hann nam staðar uppi yfir höfði hans, og var þá í líki *Nestors Neleifssonar,* er *Agamemnon* virti mest af höfðíngjunum; í hans líki talaði hinn guðlegi *Draumur* til

hans: „Sefur þú, sonur hins herkæna riddara *Atreifs?* Ekki má sá höfðíngi sofa alla nóttina gegnum, sem hefir á hendi mannaforráð og á um svo margt að annast. Tak nú skjótt eptir því, sem eg segi, því eg em sendur til þín frá *Seifi;* er honum mjög ant um þig og kennir í brjósti um þig, þó hann sè þèr fjærverandi. Hann segir þèr að herbúa hina hárprúðu *Akkea* sem ákaflegast; muntu nú fá tekið hina strætabreiðu borg *Trójumanna,* því hinir ódauðlegu guðir, er búa í *Ólymps* höllum, eru nú ekki leingur sundurþykkir; hefir *Hera* snúið hugum þeirra allra með bænum sínum; eru *Trójumönnum* nú miklar raunir búnar að ráðstöfun *Seifs.* Geym þetta í hjarta þínu, og gleym því ekki, þegar hinn sæti svefn rennur af þèr“. Að því mæltu gekk hann burt, og skildi þar við hann; var *Agamemnon* þá að hugsa um það í huga sèr, er ekki átti fram að koma: ætlaði hann, fávís maður, að hann mundi tekið fá *Príamsborg* þann dag, en vissi ekki þá fyrirætlun, er *Seifur* hafði í hyggju, því hann ætlaði að láta mannraunir og hörmúngar enn koma yfir *Trójumenn* og *Danáa* í hörðum orustum. *Agamemnon* vaknaði af svefninum, og hljómaði þá hin guðlega rödd enn í eyrum hans. Síðan settist hann upp, fór í mjúkan kyrtil, fagran og nýgjörvan; hann kastaði yfir sig stórri yfirhöfn, batt fagra sóla undir sína hraustlegu fætur, og varp um herðar sèr silfurnegldu sverði; hann tók í hönd sèr veldissprota þann, er lángfeðgar hans höfðu átt

og aldrei fyrntist; við þann sprota gekk hann til skipa hinna eirbrynjuðu *Akkea.*

Morgungyðjan stè nú upp á hinn háfa *Ólymp*, til að boða *Seifi* og öðrum ódauðlegum guðum dagsbirtuna. *Agamemnon* bað hina snjallrómuðu kallara að kveðja hina hárprúðu *Akkea* til þíngs, en þeir kvöddu þíngs, og söfnuðust menn brátt. En fyrst settust enir stórhuguðu höfðíngjar á ráðstefnu hjá skipi *Nestors* konúngs, er ættaður var frá *Pýlusborg;* og sem *Agamemnon* hafði kallað þá saman, bar hann upp eitt viturlegt ráð: „Heyrið, vinir (kvað hann), hinn guðlegi *Draumur* kom til mín í svefni á hinni himnesku nótt; var hann einna líkastur enum ágæta *Nestori* að yfirlitum, vexti og skapnaði. Hann nam staðar uppi yfir höfði mèr og talaði til mín þessum orðum: „„Sefur þú, sonur ens herkæna riddara *Atreifs?* Ekki má sá höfðíngi sofa alla nóttina í gegnum, sem hefir á hendi mannaforráð og á um svo margt að annast. Tak nú skjótt eptir því, sem eg segi þèr: því eg em sendur til þín frá *Seifi;* er honum mjög ant um þig og kennir í brjósti um þig, þó hann sè þèr fjærverandi; muntu nú fá tekið hina strætabreiðu borg *Trójumanna,* því hinir ódauðlegu guðir, er búa í *Ólymps* höllum, eru nú ekki leingur sundurþykkir sín í milli; hefir *Hera* snúið hugum þeirra allra með bænum sínum; eru *Trójumönnum* nú miklar raunir búnar að ráðstöfun *Seifs.* Geym þú þetta í hjarta þínu!““ Þá hann hafði sagt þetta,

flaug hann burt, en hinn sæti svefn rann af mèr. Heyrið nú, látum oss reyna til að herbúa sonu *Akkea*. En fyrst vil eg þó freista þeirra með orðum, eins og vera ber, og ráða þeim til að flýa á hinum margþóptuðu skipum, en þá skuluð þèr aptra þeim með orðum, hverr í sínum flokki". Nú sem hann hafði þetta mælt, settist hann niður; stóð þá *Nestor* upp, er konúngur var í hinni sendnu *Pýlusborg*. Hann var þeim vel viljaður, tók til orða og mælti: „Góðir vinir, þèr fyrirliðar og höfðíngjar *Argverja*, ef einhverr annar maður af *Akkeum* hefði sagt þenna draum, þá mundum vèr kalla þann draum hègóma-draum, og síður marka þann mann eptir, en áður; en nú hefir þann mann dreymt drauminn, sem miklu er ágætastur af *Akkeum*. Látum oss því reyna til að hervæða sonu *Akkea*". Að því mæltu gekk hann fyrstur af ráðstefnunni, en hinir veldissprota-berandi konúngar stóðu upp í móti þjóðhöfðíngjanum, og hlýddu honum.

Nú þusti fólkið að. Svo sem flokkar þèttra býflugna þjóta fram úr bergholu, og koma æ fram nýar og nýar, fljúga í riðlum uppi yfir vorblómunum, sem vínber á kló, og flögra hnapparnir ýmist hèr, ýmist þar: svo geingu margar sveitir hermanna frá skipunum og búðunum flokkum saman á þíngið eptir endilángri sjáfarströndinni. Flugufregnin, sendimær *Seifs*, fór á meðal þeirra, sem logi í sinu, og rak eptir þeim að fara, en þeir söfnuðust saman; var þíngheimurinn mjög ókyrr, en jörðin stundi

undir, er fólkið var að setjast niður; gerðist þá málkliður mikill; fóru þá til 9 kallarar og æptu, til að stöðva þá og þagga niður í þeim óhljóðin, svo þeir mættu heyra mál konúnganna, fóstursona *Seifs*. Um síðir settust menn niður, hættu glaumnum og sátu kyrrir í sætum sínum. Þá stóð upp *Agamemnon* konúngur; hann hèlt á sprota; þann sprota hafði *Hefestus* smíðað af miklum hagleik; gaf *Hefestus* hann hinum volduga *Seifi Kronussyni*, en *Seifur* gaf hann hinum hvatfæra *Argusbana*; hinn voldugi *Hermes* gaf hann hinum reiðkæna *Pelópi; Pelóps* gaf hann aptur þjóðhöfðíngjanum *Atreifi;* á deyanda degi lèt *Atreifur* hann eptir sig hinum fjárauðga *Þýesti*, en *Þýestes* eptirlèt sprotann *Agamemnoni*, að hann bæri hann og rèði yfir mörgum eyum og yfir öllu *Argverjalandi*. Hann studdist nú við þenna sprota, og mælti þeim orðum til *Argverja:* „Kærir vinir, þèr öðlíngar *Danáa*, þjónar *Aresar! Seifur Kronusson* hefir fastlega fjötrað mig með þúngu meini, sá hinn grimmi guð, er lofaði mèr í fyrstu, og hèt með hneigðu höfði, að eg skyldi leggja í eyði hina ramveggjuðu *Ilíonsborg*, áður eg færi heim; en nú hefir hann gabbað mig illa, er hann býður mèr að fara heim í *Argverjaland* frægðarlausum, eptir að eg hefi látið marga menn. Mun þetta vera vilji hins afarsterka *Seifs*, er rofið hefir höfuðvirki margra borga, og mun enn rjúfa, því hans er mátturinn mestur. Nú er það að vísu svívirðilegt til afspurnar hjá eptir-

komandi mönnum, að svo frítt og mikið lið, sem *Akkear* hafa, skuli eiga hèr í ófriði til ónýtis, og berjast við sèr færri menn, svo að ekki sèr enn, hverr endir á verður. Og er þó svo mikill liðsmunur, að ef vèr, *Akkear* og *Trójumenn*, vildum, að gjörvum tryggum sættum, telja hvortveggja liðið, og tækjum fyrst alla *Trójumenn*, þá er heimili hafa í borginni, skiptum oss síðan, *Akkeum*, í tugasveitir, og veldum einn *Trójumann* til að byrla vín fyrir hverja sveit, þá mundi þó margar tugasveitir skorta byrlara. Svo miklu fleiri ætla eg *Akkea* vera, en *Trójumenn*, þá er í borginni búa. En þeir hafa liðsmenn frá mörgum borgum, spjótfima menn, er mjög tálma fyrir mèr, og meina mèr að leggja í eyði hina fjölbygðu *Ilíonsborg*, þó mèr leiki hugur á því. Nú eru þegar liðin níu ár hins mikla *Seifs*, og viðurinn í skipunum orðinn fúinn, og reiðinn ónýtur. Konur vorar og úngbörn sitja heima, og bíða vor, en erindi það, sem vèr áttum híngað, er eingu nær en áður. Heyrið nú, gerum allir, svo sem eg segi fyrir: flýum burt á skipum vorum heim til vors kæra föðurlands, því ekki munum vèr framar fá tekið hina strætabreiðu *Trójuborg*". Þannig mælti hann, ok hrærði hjörtu í brjóstum allra manna á samkomunni, þeirra er ekki vissu af ráðagerðinni. Ókyrðist nú þíngheimurinn, svo sem enar stóru haf-öldur á *Íkars-flóa*, þegar þeir Austri og Suðri stökkva á þær ofan úr skýum föður *Seifs*, og æsa þær upp. Svo sem þá vest-

anstormur kemur, og steypist óður ofan á hávaxinn akur, og skekur hann svo, að akurinn með öxunum leggst út af: svo ókyrðist gjörvallur þíngheimurinn. Þeir þustu með fagnaðarópi til skipanna, en moldarstrokan stóð í lopt upp undan fótum þeirra; eggjaði þá hverr annan, að taka skipin og draga þau fram á enn djúpa sæ; tóku þeir nú til að grafa fram bakkaskurðina; var þá svo mikill áhugi þeirra að komast heim, að óhljóðin tóku til himins; fóru þeir nú og tóku skorðurnar undan skipunum.

Nú hefði heimför *Argverja* orðið fyrir forlög fram, ef *Hera* hefði ekki mælt við *Aþenu*: „*Atrýtóna*, dóttir *Seifs* ægisskjalda! Mikil fyrn eru slíkt! Skulu þá *Argverjar* flýa við svo búið heim í sitt kæra föðurland yfir sjáfarins breiðu hryggi? Skulu þeir eptir skilja *Príami* og *Trójumönnum* óskina sína, hina argversku *Helenu*, er fyrir hennar skuld margir *Akkear* hafa látizt í *Trójulandi* fjærri föðurjörðu sinni? Nei, far þú til herliðs hinna eirbrynjuðu *Akkea*, aptra hverjum manni með blíðum orðum, og banna þeim að draga hin borðrónu skip til sjáfar“. Þannig mælti hún, en hin glóeyga gyðja *Aþena* gerði, sem hún bauð; hún fór brunandi ofan af *Ólymps* tindum, og kom skjótt til hinna fljótu skipa *Akkea*, síðan fann hún *Odysseif*; hann var jafnráðsnjall *Seifi*; hann stóð, og snart ekki hendi hið þóptusterka, svarta skip, því harmur var kominn í hjarta hans og huga. Hin glóeyga *Aþena*

gekk til hans og mælti: „Seifborni *Laertesson*, ráðagóði *Odysseifur!* ætlið þèr við svo búið að stökkva á hin margþóptuðu skip og flýa til yðar kæra föðurlands? ætlið þèr þá að eptir skilja *Príami* og *Trójumönnum* óskina sína, hina argversku *Helenu*, er fyrir hennar sakir margir *Akkear* hafa látizt í *Trójulandi*, fjærri föðurjörðu sinni? Nei, far til herliðs *Akkea*, og dvel ekki leingur; aptra hverjum manni með blíðum orðum, og banna þeim að draga hin borðrónu skip til sjáfar". Þannig mælti hún, en hann kannaðist við gyðjuna, þegar hún lèt heyra rödd sína. Hann kastaði yfirhöfninni og hljóp af stað, en kallarinn *Evrýbates* hinn íþakski, sem fylgdi honum, tók upp skikkjuna og bar hana. *Odysseifur* gekk til fundar við *Agamemnon Atreifsson*, og fèkk hjá honum veldissprota þann, er lángfeðgar *Agamemnons* höfðu átt og aldrei fyrntist. Við þann sprota gekk *Odysseifur* til skipa hinna eirbrynjuðu *Akkea*. Þegar hann hitti einhvern af höfðíngjunum og yfirmönnunum, þá gekk hann til hans og aptraði honum með blíðum orðum: „Ekki sæmir þèr, vinur (kvað hann), að æðrast, svo sem værir þú huglaus; sezt heldur niður, og bið aðra að setjast líka; því þú veizt enn ekki með vissu, hver að sè ætlan *Atreifssonar;* hann gerir þetta til raunar, en bráðum mun hann láta sonu *Akkea* kenna á hörðu. Vèr heyrðum ekki allir, hvað hann sagði á ráðstefnunni. Hræddur er eg um, að hann reiðist sonum *Akkea* og misbjóði þeim eitthvað; því í

konúnginum, fóstursyni *Seifs*, er mikið skap, og tign sína hefir hann af *Seifi*, og hinn ráðvísi *Seifur* hefir hann í miklum kærleikum“. En sæi *Odysseifur* einhvern alþýðumann, og kæmi að honum, þar sem hann var að kalla, þá barði hann hann með sprotanum og ávítaði hann harðlega: „Sittu grafkyrr, heilla-karl (mælti hann), og hlýð orðum annara, sem þèr eru meiri menn; því þú ert ragmenni og þreklaus, og að eingu nýtur, hvorki til orustu, nè til ráðagerðar. Vèr *Akkear* eigum ekki allir að vera hèr konúngar: ekki er gott, að margir ráði; einn á að ráða; sá einn á að vera konúngur, sem sonur hins bragðvísa *Kronusar* vill svo vera láta“. Þannig kom hann góðri skipun á herinn með hervaldi sínu. Menn þustu nú aptur á þíngið frá skipunum og búðunum með miklum gný, sem þá alda hins brimótta hafs gnýr við bratta sjáfarströnd, svo að undir drynur í hafinu.

Nú settust allir, og sátu kyrrir, hver í sínu sæti, nema *Persítes;* hann einn gerði enn mikinn hávaða og kunni ekki hóf orðum sínum. Mörg ósæmileg orð átti hann í vitum sínum innan brjósts; hann jafnkítti höfðíngjunum, talaði heimskulega og án allrar siðsemi, og helzt það, sem hann hèlt að *Akkeum* mundi þykja hlægilegt. Hann kom maður ljótastur til *Ilíonsborgar:* hann var kiðfættur og haltur á öðrum fæti; herðarnar hoknar, og beygðust saman á bríngunni; höfuðið uppmjótt, og gisið strý á. *Akkilles* og *Odysseifur* höfðu á honum hið

mesta hatur, því það var vandi hans að munnhöggvast við þá. Hann valdi nú enum ágæta *Agamemnon* smánaryrði, og æpti upp ámátlega; voru *Akkear* honum ákaflega reiðir, og þókti stórlega fyrir; en hann kallaði hástöfum, og smánaði *Agamemnon* í orðum: „Hvað þykir þèr nú að, *Atreifsson*, eða hvers er þèr enn vant? Þú átt fullar búðir af eiri, og í búðum þínum eru margar konur, er vèr *Akkear* gefum þèr fyrstum að afnámi, þegar vèr náum einhverri borginni. Eða lángar þig til, að einhverr enna reiðkænu *Trójumanna* komi frá *Ilíonsborg*, og færi þèr gull til útlausnar syni sínum, þann er annaðhvort eg, eða einhverr annar af *Akkeum*, kann að hafa flutt híngað fjötraðan? Eða leikur þèr hugur á einhverri úngri konu, til að hafa eptirlæti af henni og halda henni handa þèr einum? Nei, að steypa *Akkeum* í ógæfu, það sæmir þeim illa, sem er yfirmaður þeirra. Miklar bleyður eruð þèr, *Akkear*, mínkun er að dáðleysi yðar, konur eruð þèr, en karlmenn ekki framar! Hana þá, förum nú heim aptur á skipum vorum, en látum hann liggja á meltunni yfir heiðursgjöfum sínum hèr í *Trójulandi*, svo hann sjái, hvort það er nokkuð lið, eða ekki neitt, sem vèr veitum honum hèr. Hann hefir nú og svívirt *Akkilles*, sem þó er miklu meiri maður en hann, er hann hefir af sjálfræði sínu tekið frá honum heiðursgjöf hans, heldur henni hjá sèr, og vill ei aptur skila. En það er bótin, að lítið kveður að reiði *Akkils*, og

að hann lætur ekki til sín taka, því ella mundi þetta verða í síðasta sinni, að þú, *Atreifsson,* gerðir mönnum svívirðíngar". Slíkum smánarorðum talaði *Persítes* til þjóðhöfðíngjans *Agamemnons.* Hinn ágæti *Odysseifur* snaraðist þá að honum, leit til hans með reiðisvip, og átaldi hann harðlega: „Óorðvandur maður ertu, *Persítes,* þó þú sèrt nógu snjallmæltur. Stiltu þig, vertu ekki einn að deila á konúngmenn; því ekki ætla eg nokkurn verri mann til vera, en þig, af öllum þeim, er farið hafa með *Atreifssonum* til *Ilíonsborgar.* Það er því ekki vert fyrir þig, að hafa konúnga á gómi í ræðum þínum, hreyta smánaryrðum að þeim, og hafa ávalt augun á heimförinni. Vèr vitum alls ekki með vissu, hversu því muni af reiða, ef vèr, synir *Akkea,* höldum heim aptur, hvort það verður oss til gæfu eða ógæfu. En það skal eg segja þèr fyrir víst, og það skal framgeingt verða, að ef eg hitti þig aptur fara með slíka vitleysu og þú fer með nú, þá skal ekki framar höfuð sitja á herðum *Odysseifs,* og eg skal ekki framar heita faðir hans *Telemakkuss,* ef eg skal ekki taka þig og færa þig af klæðum þínum, yfirhöfninni, kyrtlinum og nærbeltinu, berja þig óþyrmilega, og reka þig svo skælandi af þínginu til skipanna". Að því mæltu lamdi hann sprotanum um bak og herðar á *Persítes,* en hann eingdi sig saman, og tárin flóðu af augum hans; en blóðug kúla hljóp upp á hryggnum undan hinum gullna sprota; settist *Persítes* þá niður og

var felmtsfullur; hann kendi til og þurkaði af sèr tárin; var þá á honum ógerðarsvipur. Hinir, þó þeim þækti súrt í brotið, hlógu dátt að honum, og þá tók einhverr þeirra til orða, og leit til þess, er næstur honum var: „Mikil undur! Sannlega hefir *Odysseifur* unnið ótal-mörg ágætisverk, komið fyrstur upp með góð ráð og eggjað fram liðið til orustu; en þó er það miklu ágætast, er hann nú gerði með *Argverjum*, er hann vandi þenna lastsama orðhák af málsemdinni; mun hann víst ekki hèr eptir láta ofdirfskuna eggja sig aptur til að smána konúnga með lastmælum.

Þannig mælti lýðurinn, en *Odysseifur* borgabrjótur stóð upp, og hèlt á sprota. Hin glóeyga *Aþena* stóð hjá honum, hún var í kallara-líki, og þaggaði lýðinn, svo bæði hinir fremstu og öptustu af sonum *Akkea* gætu heyrt, hvað talað væri, og skilið það, sem til ráðs væri tekið. Hann var þeim vel viljaður, talaði á þínginu og mælti: „*Atreifsson!* víst ætla *Akkear* sèr nú að fá þèr, konúngur, hinnar mestu smánar meðal allra mæltra manna, er þeir efna eigi við þig það loforð, er þeir gerðu, þá er þeir voru á leið híngað frá enu hestauðga *Argverjalandi*, að þú skyldir ekki fyrr frá hverfa, en þú hefðir í eyði lagt hina veggsterku *Ilíonsborg*; því nú óska þeir sèr hverr með öðrum grátandi, að komast heim, svo sem úngbörn, eða konur, sem mist hafa menn sína. Að vísu er það þúngt, að fara með sárt ennið heim aptur. Því óþolinmóður

verður hverr sá maður, sem hrekst á margþóptuðu skipi í stormum og æstum sjó á vetrardegi, þó hann hafi ekki verið leingur en einn mánuð í burtu frá konu sinni. En nú er þegar liðið hið níunda ár, og vèr dveljumst hèr enn. Lái eg því ekki *Akkeum*, þó þeir eiri ekki hjá hinum stafnbognu skipum; og er þó hvortveggja óvirðíng fyrir þig, bæði að dveljast hèr leingi og fara tómhendur heim. Verið þolinmóðir, vinir, og bíðið enn nokkura stund, svo vèr vitum, hvort *Kalkas* spáir rètt, eða ekki. Vèr vitum allir, hvað það var. Allir þèr, sem valkyrjur dauðans ekki hafa á burt hrifið, eruð vottar þess, að forðum, þegar skip *Akkea* söfnuðust saman í *Ális-höfn, Príami* og *Trójumönnum* til tjóns, þá stofnuðum vèr hinum ódauðlegu guðum gallalaus hundraðsblót undir fögrum hlyn við lind nokkura, hvaðan tært vatn rann. Hèr birtist mikil jarteikn: ógurlegur dreki, blóðrauður á baki, er sjálfur *Ólymps-guð* hafði látið í ljós koma, skauzt undan blótstallanum og stökk upp í hlyninn. Þar, á efsta kvistinum, voru titlíngs-úngar, nýkomnir úr eggi, og grúfðu sig af hræðslu niður undir laufblöðin; þeir voru átta, en móðirin, sem úngana átti, var hin níunda. Drekinn át nú úngana, og tístu þeir aumkvunarlega á meðan. Móðirin flaug kveinandi kríng um börn sín, en meðan hún var að saungla í kríng um úngana, hleypti drekinn sèr í bugður, tók í væng hennar og greip hana. En er hann hafði etið titlíngs-úngana og móðurina með, þá lèt

guð, sem hafði leidt hann í ljós, hann verða auðkennilegan; því sonur hins brögðótta *Kronusar* gerði hann að steini, en vèr stóðum fullir undrunar yfir þessum atburði. Þegar nú þessa óttalegu undursjón bar fyrir mitt í blóti goðanna, þá kvað *Kalkas* þegar upp svo felda goðaspá: „„Þèr hárprúðu *Akkear,* hví eruð þèr svo hljóðir? Hinn ráðvísi *Seifur* hefir birt oss þetta hið mikla teikn, sem á sèr lángan aldur og síðar mun rætast, þó seint verði, og minníng þess aldrei undir lok líða. Eins og dreki þessi át titlíngs-úngana og móður þeirra (þeir voru átta, en móðirin, sem úngana átti, hin níunda): svo munum vèr eiga þar eins mörg ár í ófriði, og taka hina strætabreiðu borg á tíunda árinu““. Svo mælti *Kalkas,* og mun nú alt þetta að vísu fram koma. Heyrið nú, þèr fagurbrynhosuðu *Akkear,* verið hèr allir kyrrir, uns vèr fáum tekið hina miklu *Príams-borg*“. Þannig mælti hann, en *Akkear* æptu hástöfum, og rómuðu vel mál hins ágæta *Odysseifs,* en ógurlega tók undir í skipunum, er *Akkear* æptu. Þá talaði hinn gerenski riddari *Nestor* til þeirra: „Mikið er til þess að vita, að þèr skuluð tala sem úngbörn, er ekki kunna til hernaðar! Hvað verður þá úr samtökum vorum og eiðum? Allar ráðagerðir og fyrirætlanir manna, hinar óblönduðu dreypifórnir, og handsöl þau, er vèr treystum, eiga þá að verða sem á bál borin! Því vèr þráttum með orðum til einskis, og getum eingan útveg fundið, svo lángan tíma sem vèr höf-

um verið hèr. *Atreifsson*, vertú fyrirliði *Argverja* í hinum hörðu orustum, og halt enn stöðugu því ráðlagi, sem þú hefir fyrr haft. Tröll hafi þá einn eða tvo, er ekki vilja verða öðrum *Akkeum* samráða, en hafa það ráð með höndum, að fara heim til *Argverjalands*, áður en þeir hafa komizt að raun um, hvort loforð *Seifs* ægisskjalda verður að hègómamáli, eða það rætist; munu þeir eingu fá til leiðar komið. Því það hygg eg, að hinn afarvoldugi *Kronusson* hafi staðfest heit sitt, þann dag er *Argverjar* stigu á hin örskreiðu skip, til að færa *Trójumönnum* dauða og feigð, með því hann lèt þá leiptur koma hægra megin, og birti þar með fyrirboðandi jarteiknir. Flýti sèr því eingi heim, fyrr en hann hefir geingið í rekkju hjá einhverri af konum *Trójumanna*, og hefnt harma og andvarpana *Helenu*. En vilji nokkurr ákaft fara heim, þá taki hann sitt þóptusterka, svarta skip, svo hann bíði bana og hitti skapadægur sitt, fyrr en aðrir menn. En þú, konúngur, vert nú bæði sjálfur ráðagóður, og ráðþæginn við aðra. Ekki mun það með öllu ónýtt, er eg mun til leggja. Skipt liðinu, *Agamemnon*, í ættkvíslir og frændbálka, svo hverr frændbálkur hjálpi öðrum, og hver ættkvísl annari. Ef þú gerir svo, og ef *Akkear* hlýða þèr, þá muntu komast að raun um, hverr fyrirliðanna, og svo hverr liðsmanna, sè huglaus, og hverr hugdjarfur, því þá berjast hvorir sèr; þá muntu og fá sèð, hvort það er að guðlegri ráðstöfun, að

þú fær ei unnið borgina, eða það er að kenna ódugnaði manna og óherkænsku". *Agamemnon* konúngur svaraði honum og sagði: „Enn sèr það á, sem fyrr, gamli maður, að þú ert allra *Akkea* ráðsnjallastur. Faðir *Seifur, Apena* og *Appollon*, eg vildi óska, að eg hefði tíu slíka ráðsnillínga meðal *Akkea!* þá mundi borg *Príamuss* konúngs skjótt hníga, tekin og lögð í eyði af oss. En *Seifur* ægisskjaldi *Kronusson* hefir skapað mèr miklar raunir, þar sem hann kastar mèr inn í ónýtar þrætur og deilur; því við *Akkilles* áttum orðadeilu hvorr við annan út af meynni, og hafði eg þó upptökin til þeirrar rimmu. En ef við einhvern tíma leggjumst á eitt báðir, þá mun *Trójumönnum* ekki frestur á illu verða. Gángið nú til dagverðar, áður en vèr hefjum orustuna: hvetji hverr vel spjót sitt og hafi til taks skjöld sinn, gefi og hinum fótfráu hestum vel að eta, gái vel að kerru sinni hvervetna og leggi allan hug á bardagann, svo vèr getum þreytt hina óttalegu styrjöld allan daginn; því ekki mun hin minnsta hvíld á verða, fyrr en nótt kemur og slítur áhlaup manna. Hlífskjaldar-fetillinn mun löðra í svita á bríngu hvers manns, höndin lýast á spjótinu, og hesturinn svitna af því að draga hina velsköfnu kerru. En verði eg þess var, að nokkurr vilji dveljast eptir niðri við hin stafnbjúgu skip og ekki vera í orustu, þá skal honum ekki verða það til lífs, að hann kemst undan hundum og hræfuglum".

Þannig mælti hann, en *Argverjar* æptu hástöfum, svo sem alda æpir við klettsnös á brattri sjáfarströnd, þegar sunnanvindur kemur og rekur hana af stað; gánga aldrei af klettinum öldur ýmissra vinda, er koma hèðan og hvaðan. Þeir stóðu upp og hlupu af stað, hverr til síns skips, kveiktu upp eld í búðum sínum og tóku dagverð. Þeir færðu fórnir hinum ódauðlegu guðum, sínum guði hverr, og báðu, að þeir mættu lífs af komast úr orustunni. Herkonúngurinn *Agamemnon* slátraði feitum uxa fimm vetra gömlum til fórnar hinum alvolduga *Kronussyni*. Hann bauð til hinum ágætustu höfðíngjum af alþjóð *Akkea*, fyrst *Nestori* og *Idomeneifi* konúngi, því næst hvorumtveggja *Ajanti* og *Týdeifssyni; Odysseifur* var hinn sjötti; hann var jafnráðsnjallur *Seifi*. Hinn rómsterki *Menelás* kom óboðinn, því hann vissi, hve bróðir sinn átti ant. Þeir stóðu í hríng um uxann og tóku upp blótbyggið. Þá tók *Agamemnon* konúngur til orða: „*Seifur*, þú hinn vegsamlegasti og mesti, þú svartskýa-guð, sem býr í uppheimsloptinu! Lát ekki sólu fyrr í ægi renna og rökkur ekki fyrr á koma, en eg hefi hrundið ofan hinu sótuga þaki *Príamuss* og brent dyr hans í loganda eldi, en rist í sundur brynstakkinn á brjósti *Hektors*, og margir fèlagar hans liggja á grúfu í kríng um hann í moldinni og þrífa í jörðina með tönnunum“. Svo mælti hann, en *Kronusson* veitti honum ekki bæn sína; hann þág að sönnu blótið,

en jók honum stórmikla þraut. En er þeir höfðu beðizt fyrir og dreift blótbygginu, þá kertu þeir fyrst uxann á bak aptur, skáru hann svo á háls og flógu, þá skáru þeir blótbitana úr lærunum, huldu þá í mör og lètu tvö vera mörlögin, lögðu svo hráa bita þar ofan á. Þetta brendu þeir við þurr skíði, en iðrunum stúngu þeir á teina og hèldu uppi yfir eldinum. En er lærbitarnir voru brunnir, og þeir höfðu etið iðrarnar, þá brytjuðu þeir hitt kjötið og stúngu því á teina, steiktu það gætilega, og tóku svo öll stykkin fram af teinunum. En er þeir höfðu lokið því starfi, matreiddu þeir og settust svo að veizlu, og skorti ekkert, það er ákjósa mátti í skamtveizlu. En er þeir höfðu sadt lyst sína á mat og drykk, tók hinn gerenski riddari *Nestor* fyrstur til máls: „Frægasti *Atreifsson, Agamemnon* herkonúngur! vèr skulum nú ekki hafa hèr mikla málaleingíng úr þessu, og ekki fresta leingi þeim starfa, sem guð felur oss nú á hendur. Heyr nú, kallarar hinna eirbrynjuðu *Akkea* skulu stefna saman lýðnum við skipin, en vèr skulum gánga allir saman svo búnir til enna víðu herbúða *Akkea*, að vèr getum sem fyrst vakið snarpa orustu“. Þannig mælti hann, en herkonúngurinn *Agamemnon* hlýddi honum. Hann bauð þegar hinum snjallrómuðu köllurum að kalla hina hárprúðu *Akkea* til orustu. Þeir kölluðu, en *Akkear* söfnuðust að bragði. *Atreifssonur* og aðrir höfðíngjar, fóstursynir *Seifs*, óðu um herinn og fylktu liðinu. Þar var með

þeim hin glóeyga *Apena,* hún hafði ægisskjöldinn þann hinn dýra, hinn eilífa og ódauðlega; þar hèingu á hundrað skúfar úr algulli, allir vel flèttaðir, og var hverr skúfurinn 100 uxalög. Með voðalegu augnaráði rann hún um her *Akkea* með þenna skjöld, og eggjaði liðið af stað, hún vakti styrk í brjósti hvers manns til að stríða og berjast án afláts; gerðist þeim nú skjótt kærari styrjöldin, en að hverfa aptur til ættjarða sinna á enum holu skipum. Svo sem bjarminn sèst lángar leiðir af voveiflegum eldi, er brennir upp ógnastóran skóg uppi á fjallstindi: svo lagði skínandi ljóma af enum dýrlegu eirvopnum, gegnum uppheimsloptið til himins, þar er þeir geingu. En svo sem stórflokkar af fljúgandi fuglum, gæsum eða krákum eða hálslaungum svönum, fljúga hèr og hvar á hinni asnesku veitu við *Kaýsters*-strauma, baða vængjunum hróðugir, og setjast hvorr fram fyrir annan glammandi, svo undir tekur í veitunni: svo streymdu stórflokkar *Akkea* frá skipunum og búðunum fram á *Skamanders-völl,* en jörðin dunaði ógurlega undir af fótatökum mannanna og hestanna. Þeir numu staðar á enu blómlega eingi *Skamanders,* ótölulegir, sem laufblöðin og blómin, er þjóta upp á vorin. Svo sem stórflokkar áfjáðra mýflugna sveima í kríng á kvíabóli um vortíma, þegar mjólkin fyllir skjólurnar: svo stóðu margir hárprúðir *Akkear* á vellinum til móts við *Trójumenn,* og lángaði ákaft til að eyða þeim gjörsamlega. Svo sem geitahirð-

um verður lítið fyrir að skilja sundur stórar geithjarðir, þegar svo ber við, að þeim lendir saman í haganum: svo skipuðu fyrirliðar hernum til bardaga, hverr á sínum stað. Meðal þeirra var hinn voldugi *Agamemnon*, hann var líkur hinum þrumuglaða *Seifi* til höfuðsins og augnanna, *Aresi* um mjaðmirnar, en *Posídoni* um brínguna. Svo sem griðúngur í nautahjörð er lángtíguglegastur allra nautanna, og ber af þeim, þegar þau koma saman: svo gerði *Seifur Atreifsson* á þeim degi frábæran og framúrskarandi meðal margra kappa.

Segið mèr nú, þèr saunggyðjur, er búið í *Ólymps* höllum, því þèr eruð gyðjur, eruð hvervetna viðstaddar og vitið alt, en vèr höfum sögusögn eina til og vitum ekkert: hverjir voru fyrirliðar og yfirmenn *Danáa*. Eg mundi ekki geta sagt eða tilgreint allan þann fjölda, og það jafnvel ekki þó eg hefði tíu túngur og tíu munna, óslítandi rödd og eirhjarta innan brjósts, nema þèr, ólympsku saunggyðjur, dætur *Seifs* ægisskjalda, mintuð mig á, hversu margir þeir voru, sem komu til *Ilíonsborgar*. Nú mun eg telja upp formenn skipanna og öll skipin.

Þeir *Penelás, Leitus, Arkesílás, Proþonór* og *Kloníus* voru fyrir *Böyótum*, bæði þeim er bjuggu í *Hyrju,* hinni klettóttu *Álisborg,* í *Skön, Skóla* og hinni skógóttu *Eteonsborg,* í *Þespíu, Graju,* og hinni rúmlendu *Mýkalessu,* og fyrir þeim, er bjuggu í *Harmi, Eilesíu* og *Erýþru,* og þeim sem

bygðu *Eleonsborg, Hýlu* og *Peteonsborg, Ókalíu* og hina velsettu *Medeonsborg,* í *Kópu, Evtresis* og hinni dúf-auðgu *Þispu;* fyrir þeim er bygðu *Koróneu,* hina grösugu *Halíartusborg* og *Plateu* og *Glísantsborg,* og þeim er bjuggu í hinni velsettu borg *Undirþebu,* í hinni helgu *Onkestusborg,* enum fagra *Posídons*-lundi, og þeim er bygðu hina vínberjóttu *Örnu, Mídeu,* hina sannhelgu *Nísu* og *Anþedonsborg,* er lá á landamæri. Frá þeim borgum komu 50 skip, og voru 120 sveinar *Böyóta* á hverju.

Þeir sem bjuggu í *Aspledon* og *Orkomenus Minýaborg,* fyrir þeim rèðu þeir *Askaláfur* og *Jalmenus,* synir *Aresar.* Hin heiðvirða mær *Astýoka* hafði geingið upp í loptsal sinn í höll *Aktors Azeifssonar;* þar hvíldi hinn sterki *Ares* hjá henni á laun, og átti hún þá bræður við honum. Með þeim komu 30 skip.

Þeir *Skedíus* og *Epístrofus,* synir hins hugstóra *Ifítuss Nábolssonar,* rèðu fyrir *Fókverjum,* er áttu heima í *Kýparissu,* í hinni klettóttu *Pýþó,* í hinni sannhelgu *Krísu, Dális* og *Panopsborg,* og fyrir þeim, er bjuggu í kríng um *Anemóríu* og *Hýampólis,* og þeim, sem bjuggu við hið helga *Kefísus*-fljót, og þeim er áttu heima í *Líleu,* við uppsprettur *Kefísuss.* Þeim fylgdu 40 dökk skip. Þeir bræður voru í óða-önn að skipa niður fylkíngum *Fókverja,* og stóðu herbúnir næst *Böyótum* til vinstri handar.

Hinn skjóti *Ajant Öyleifsson* rèð fyrir *Lokrum;* hann var hvergi nærri eins stór og *Ajant Telamonsson,* heldur miklu minni; hann var lítill maður vexti og hafði línbrynju, en hann bar af alþjóð *Hellena* og öllum *Akkeum* að spjótfimi. *Lokrar* bjuggu í *Kýnus, Ópunti* og *Kallíarus,* í *Besu, Skarfsborg* og hinni fögru *Ágíu,* í *Torfu* og *Þrónsborg* hjá *Boagríus*-straumum. Honum fylgdu 40 svört skip, er *Lokrar* áttu, þeir er búa gagnvart *Evböyu.*

Hinir móðrökku *Abantar,* þeir er bjuggu á *Evböyu,* í *Kalkis, Eretríu* og hinni vínberjóttu *Histíeu,* í sæborginni *Kerintuborg* og hinni hálendu *Díusborg,* og þeir er heima áttu í *Karystus* og bjuggu í *Styrsborg:* fyrir þeim rèð *Elefenor Kalkódontsson,* afsprîngur *Aresar,* fyrirliði hinna hugstóru *Abanta;* honum fylgdu hinir vösku *Abantar;* þeir lètu vaxa hár í hnakka sèr, voru bardagamenn miklir og hlupu með framrèttum spjótum til að rjúfa brynjur af brjóstum óvina sinna. Honum fylgdu 40 svört skip.

Þeir sem áttu heima í hinni velbygðu *Apenuborg,* og bjuggu í landi hins hugstóra *Erekteifs;* móðir hans var hin kornfrjófa *Sáðjörð,* en *Apena,* dóttir *Seifs,* hafði forðum fóstrað hann, og sett hann í sitt auðuga hof í *Apenuborg;* þar hylla sveinar *Apenumanna* hann að sèr á ári hverju með griðúngablótum og sauðablótum: fyrir þeim rèð *Menesteifur Peteósson;* hefir enn eingi jarðneskur maður orðið hans jafníngi í því að fylkja kerruliði og

skjaldmannaliði; *Nestor* einn jafnaðist við hann í því, því hann var eldri. Honum fylgdu 50 svört skip.

*Ajant* hafði 12 skip frá *Salamsey,* [og þegar hann kom með þau, skipaði hann þeim, þar er flokkar *Apenumanna* stóðu].

Þeir sem bjuggu í *Argverjaborg,* og í hinni vegg-girtu *Tíryntsborg, Hermíónu* og *Asínu,* er liggja við hinn djúpa fjörð, í *Tröyzenuborg, Eionsborg* og hinni vínviðóttu *Epídársborg,* og þeir sveinar *Akkea,* er bjuggu í *Egínu* og *Masetsborg:* fyrir þeim rèð hinn rómsterki *Díómedes,* og *Stenelus,* sonur hins fræga *Kapaneifs;* með þeim fór hinn þriðji maður, *Evrýalus,* ágætur maður; hann var sonur *Mekisteifs* konúngs *Talajonssonar;* en hinn rómsterki *Díómedes* var fyrir þeim öllum saman. Þeim fylgdu 80 dökk skip.

Þeir sem bjuggu í hinni velbygðu borg *Mýkenu,* hinni auðugu *Korintuborg* og hinni fjölbygðu *Kleónsborg,* þeir sem bjuggu í *Orneu,* hinni fögru *Arepýreu,* og í *Sikýon,* þar er *Adrestus* var fyrst konúngur, þeir sem bjuggu í *Hýperesíu,* hinni hálendu *Gonóessu,* í *Pellenu,* og í kríng um *Egíonsborg,* og með allri *Strönd,* og umhverfis ena víðlendu *Helíku:* þeir höfðu 100 skip, og var fyrir þeim hinn voldugi *Agamemnon Atreifsson;* honum fylgdu lángflestir menn og hraustastir; sjálfur var hann búinn skínanda eirbúnaði og var hinn tígulegasti; hann bar af öllum köppunum, því hann

var hinn ágætasti maður, og hafði með sèr lángflesta menn.

Þeir sem bjuggu í hinu hola og gjáótta *Lakverjalandi,* í *Faris* og *Spörtu,* og hinni dúf-auðgu *Messu,* í *Brýseu* og hinni fögru *Ágeu,* í *Amyklu* og sjáfarborginni *Helos,* í *Las* og *Öytýlus:* þeir höfðu 60 skip; fyrir þeim rèð bróðir *Agamemnons,* hinn rómsterki *Menelás.* Þeir bjuggust til orustu fjarri öðrum mönnum; en *Menelás* var í liðinu, treysti áhuga sínum, og eggjaði liðið til bardaga; var honum helzt í mun að hefna harma og andvarpana *Helenu.*

Þeir sem bjuggu í *Pýlusborg* og hinni fögru *Arenu,* og í *Þrýonsborg,* þar sem vaðið er á *Alfeus,* í hinni velbygðu *Epý,* í *Kyparisses* (Sýpresb.) og *Amfigeníu* og *Pteleu* og *Helos* og *Dóríonsborg;* þar hittu saunggyðjurnar *Þamýris* hinn þrakneska, er hann kom frá *Öykalíu,* frá *Evrýtus* hinum öykalska, og tóku þar frá honum saunglistar-gáfuna; því hann hafði hrósað því, að hann skyldi hafa betur í saung, enn þótt sjálfar saunggyðjurnar sýngi, dætur *Seifs* ægisskjalda; en þær reiddust og gerðu hann sjónlausan, tóku frá honum hina frábæru saunglistar-gáfu, og lètu hann gleyma hörpuslættinum: hinn gerenski riddari *Nestor* var fyrir þeim; honum fylgdu 90 skip.

Þeir sem bjuggu í *Arkadalandi* undir enu háfa *Kyllenu*-fjalli hjá *Epýts*-haugi, þar voru miklir höggorustumenn; þeir er bjuggu í *Feneons-*

*borg* og í hinni epl-auðgu *Orkomenusborg,* og í *Rípu,* og *Stratíu* og enni veðurnæmu *Enispu,* og í *Tegeu* og hinni fögru *Mantíneu,* og í *Stymfalus* og í *Parrasíu:* þeir höfðu 60 skip, og rèð fyrir þeim hinn voldugi *Agapenor Ankeusson;* voru margir herkænir *Arkadar* á hverju skipi, en herkonúngurinn *Agamemnon Atreifsson* hafði lèð þeim hin þóptusterku skip til að sigla á yfir hið dimmbláa haf, því þeir lögðu eigi hug á sjóferðir.

Þeir sem bjuggu í *Búprasíu* og hinu ágæta *Elealandi,* svo vítt sem *Hyrmína* ræður og *Myrsínus,* sem liggur á landamæri, og *Ólens*-hamar og *Aleisíon:* fyrirliðar þeirra voru fjórir, og fylgdu hverjum þeirra tíu fljót skip; voru þar á margir *Epear.* Fyrir þeim voru þeir *Amfímakkus* og *Þalpíus;* var hinn sonur *Kteatuss,* en þessi son *Evrytuss, Aktorssona;* fyrir þriðju sveit rèð hinn sterki *Díóres Amarynkesson,* en fyrir hinni fjórðu hinn goðumlíki *Polyxenus,* sonur *Agasteness* konúngs *Ágeassonar.*

Þeir sem voru frá *Dúliksey* og enum helgu *Ekina*-eyum, er liggja fyrir handan haf, gagnvart *Elealandi:* fyrir þeim rèð *Meges Fýleifsson,* jafnmaki *Aresar.* Faðir hans var riddarinn *Fýleifur,* ástvinur *Seifs*; hann flutti sig forðum til *Dúlikseyar,* þegar hann varð ósáttur við föður sinn. Honum fylgdu 40 svört skip.

*Odysseifur* rèð fyrir enum hugstóru *Kefallenum:* þeir bjuggu á *Íþöku* og hinu laufkvika *Nerítons-*

fjalli, í *Krókylju* og hinni óslèttu *Egilípu*, og þeir er bjuggu í *Sakyntsey* og á *Sámsey*, svo og þeir er bjuggu á meginlandinu og á handari ströndinni: fyrir þeim rèð *Odysseifur*; hann var jafnmaki *Seifs* að ráðsnild. Honum fylgdu 12 hlýrroðin skip.

*Þóant Andremonsson* var fyrir *Etólum*, er bjuggu í *Plevron*, *Ólenus* og *Pýlenu*, á *Kalkis*-strönd og í hinni klettóttu *Kalýdonsborg*; því þá voru þeir ekki leingur á lífi synir hins hugstóra *Öynefs*, og ekki heldur sjálfur hann; þá var og dáinn hinn bleikhári *Meleager*. Voru *Þóanti* falin á hendur öll yfirráð yfir *Etólum*. Honum fylgdu 40 svört skip.

Hinn spjótfimi *Idomeneifur* rèð fyrir *Kríteyíngum*; þeir er bjuggu í *Knósus*, í hinni vegggirtu *Gortúnsborg*, í *Lyktus*, *Míletus* og hinni hvítu *Lýkastus*, í *Festus* og *Rytion*, sem voru fjölbygðar borgir, og aðrir, er bjuggu á *Krítarey*, þar sem eru 100 borgir: fyrir þeim rèð hinn spjótfimi *Idomeneifur* og *Meríónes*, sem var jafnmaki (*Enýaliuss*) hins mannskæða vígaguðs. Þeim fylgdu 80 svört skip.

Hinn hrausti og mikli *Tlepólemus Heraklesson* kom frá *Roðey* með 9 skip, er áttu hinir framgjörnu *Roðeyíngar*; þeir áttu bygð á *Roðey*, og var þeim þar skipt í 3 borgir, í *Lindus*, *Jalýsus* og hina hvítu *Kamíru*. Fyrir þeim rèð hinn spjótfimi *Tlepólemus*, er *Astýokea* hafði getið við enum sterka *Heraklesi*. Hana hafði *Herakles* numið frá *Effýru*,

við fljótið *Selleis,* eptir það hann hafði lagt í eyði margar herkonúnga borgir, fóstursona *Seifs.* En er *Tlepólemus* vóx upp í hinni traustsmíðuðu höll, drap hann skyndilega *Likymníus,* móðurbróður föður síns, afspríng *Aresar,* er þá var farinn að eldast. Hann smíðaði þegar skip og rèð til marga menn, og flýði á haf út, því hinir aðrir synir og sonasynir hins sterka *Herakless* ógnuðu honum. Hann hraktist til *Roðeyar* og varð miklar raunir að þola. Þeir bjuggu þar í þrennu lagi eptir ættkvíslum, og urðu kærir *Seifi,* er ræður yfir guðum og mönnum, og lèt *Kronusson* afarmikinn auð renna til þeirra.

*Níreifur* hafði þrjú jafnbyrð skip frá *Sýmey. Níreifur* var sonur *Aglaju* og *Karóps* konúngs. *Níreifur* var fríðastur af öllum *Danáum,* þeim er til *Ilíonsborgar* komu, næst hinum ágæta *Peleifssyni;* eingi var hann hermaður, og fylgdu honum fáir menn.

Þeir sem bjuggu í *Nisýru, Karpatus* og *Kasus,* í *Kóey,* ríki *Evrýpýluss,* og í *Kalydnas*-eyum: fyrir þeim rèðu þeir *Fidippus* og *Antífus;* þeir voru báðir synir *Þessaluss Heraklessonar.* Með þeim komu 30 skip.

Nú mun eg telja þá, er bjuggu í *Argverjalandi Pelasga;* þeir bjuggu í *Alos* og *Alópu* og í *Trakis,* í *Fiðju,* og í hinni kvennfögru *Helluborg;* þeir kölluðust *Myrmídónar, Hellumenn* og *Akkear:* þeir höfðu 50 skip; fyrir þeim rèð *Akkilles.* Þeir

áttu nú eingan hlut að hinni róstusömu styrjöld, því eingi var til að gángast fyrir að skipa þeim í fylkíngar; því hinn fóthvati, ágæti *Akkilles* lá niðri við skip sín; var hann reiður sökum hinnar hárfögru meyar, *Brísesdóttur,* er hann hafði tekið að herfángi í *Lýrnesborg,* og miklar þrautir fyrir haft, lagt í eyði *Lýrnesborg* og brotið veggi *Pebuborgar,* og að velli lagt *Mýnes* og *Epistrofus,* sonu *Evenus* konúngs *Selepíassonar.* Sorgbitinn hennar vegna lá hann þar, en bráðum átti hann að rísa á fætur aptur.

Þeir sem bjuggu í *Fýlaksborg* og hinni blómlegu *Pýrasborg,* hofteigi *Demetru,* og í *Ítonsborg,* móður sauðanna, í strandborginni *Antron* og enni grasgefnu *Pteleosborg:* fyrir þeim rèð hinn herskái *Prótesílás,* meðan hann var lífs, en þá huldi hann jörðin rauð; kona hans hafði eptir orðið í *Fýlaksborg* með sárar kinnar, og hús hans var hálfgert; en einhverr dardanskur maður drap hann, í því hann hljóp fyrstur allra *Akkea* á land af skipi sínu. Ekki urðu þeir samt forustulausir fyrir það, þó þeir söknuðu foríngja síns, því *Podarkes* skipaði þeim í fylkíngar, afspríngur *Aresar,* sonur hins sauðauðuga *Ifíkluss Fýlakssonar,* albróðir ens hugstóra *Prótesíláss;* var hann ýngri að aldri, en hinn hergjarni öðlíngur, *Prótesílás,* eldri og hraustari; vantaði liðsmenn ekki fyrirliðann, en söknuðu þó hins, því hann hafði verið hraustur maður. Honum fylgdu 40 svört skip.

þeir sem bjuggu í *Feruborg* við *Böybuvatn,* í *Böybu* og *Glafýru* og hinni fjölbygðu *Jólkusborg:* þeir höfðu 11 skip; fyrir þeim rèð *Evmelus Aðmetusson;* hafði hin ágæta kona *Alkestis,* hin fríðasta af dætrum *Pelíasar,* átt hann við *Aðmetusi.*

þeir sem bjuggu í *Meþónu* og *Þámakíu,* í *Melíböyu* og hinni óslèttu *Olízonsborg:* fyrir þeim rèð *Fíloktetes;* hann kunni vel við boga; þeir höfðu 7 skip, voru 50 ræðarar á hverju, og kunnu þeir vel með boga að fara og börðust snarplega. En hann lá þá á einni ey, og þoldi harðar raunir, hann lá í hinni sannhelgu *Lemney;* höfðu synir *Akkea* skilið hann þar eptir sóttveikan af illu sári eptir banvænan eiturorm; lá hann þar þúngt haldinn, en *Argverjar,* þeir er við skipin voru, áttu bráðum að muna til *Fíloktetes* konúngs. Ekki voru þeir forustulausir, þó þeir söknuðu foríngja síns, því *Medon* skipaði þeim í fylkíngar, launsonur *Öyleifs,* er *Rena* átti við *Öyleifi* borgabrjót.

þeir sem bjuggu í *Trikku* og hinni grýttu *Íþómu,* og í *Öykalíu,* borg *Evrýtusar* hins öykalska: fyrir þeim rèðu tveir synir *Asklepíusar,* báðir góðir læknar, *Podaliríus* og *Makáon;* þeim fylgdu 30 skip.

þeir sem bjuggu í *Ormeníu* og við *Hýperíu*-lind, og í *Asteríu* og á hinum hvítu *Títanus*-tindum: fyrir þeim rèð *Evrýpýlus, Evemons* frægi son; honum fylgdu 40 skip.

þeir sem bjuggu í *Argissu* og *Gyrtónu, Orþu,*

*Elónu* og hinni hvítu *Olossonsborg:* fyrir þeim rèð hinn hergjarni *Polýpöytes,* sonur *Píríþóuss,* er hinn ódauðlegi *Seifur* hafði átt; en hin ágæta *Hippódamía* átti *Polýpöytes* við *Píríþóusi,* þann dag er hann hefndi sín á hinum loðnu *Ferum* (bergrisum), rak þá burt af *Pelíons*-fjalli, og hrakti þá til *Epíkulands.* Ekki var *Polýpöytes* einn fyrir þeim; með honum var *Leonteifur,* afspríngur *Aresar,* sonur hins ofurhugaða *Korónuss Keneifssonar.* Þeim fylgdu 40 skip.

*Gúnefur* kom með 22 skip frá *Kýfsborg;* honum fylgdu *Eníanar* og hinir hergjörnu *Perebar,* er sett höfðu bygð sína í kríng um hina vetrarríku *Dódónu,* og áttu land í kríng um hið fagra *Títaresus*-fljót; það fljót rennir sínu straumfagra vatni í *Peneus*-fljót, en blandast þó ekki saman við hinn silfrinsveipótta *Peneus,* heldur flýtur ofan á honum, eins og viðsmjör; því *Títaresus* er kvísl af *Stýgar*-fljóti, hinu óttalega eiðsvatni.

*Proþóus Tenþredonsson* var fyrir *Magnesíumönnum;* þeir bjuggu í kríng um *Peneus* og hið laufkvika *Pelíons*-fjall; fyrir þeim var hinn skjóti *Proþóus;* honum fylgdu 40 skip.

Þessir voru fyrirliðar og yfirmenn *Danáa.* En seg mèr nú, saunggyðja, hverjir voru ágætastir kappanna, og hverjir voru beztir hestar í liði *Atreifssona?* Af hestunum voru beztar hryssur þær, er *Evmelus* ók með: þær voru fótfráar, sem fuglar væru, samlitar á hár (eins í háralagi), jafngamlar,

þráðjafnar á herðakamb; hafði *Appollon* silfrinbogi alið upp báðar þessar hryssur í *Períu,* og stóð af þeim *Aresar*-ótti. En af hermönnum var *Ajant Telamonsson* miklu ágætastur, þann tíma er *Akkilles* var reiður, því *Akkilles* var lángframast allra, og svo hestar þeir, er drógu hinn ágæta *Peleifsson.* En hann lá nú niðri við hin stafnbjúgu, haffæru skip, afarreiður þjóðhöfðíngjanum *Agamemnon Atreifssyni;* menn hans skemtu sèr á sjáfarströndinni með töfluleik, spjótkasti og bogaskoti; hestarnir stóðu hverjir við sínar kerrur, og átu smára og mýrvaxna steinselju, og kerrur þeirra, er þeir áttu, lágu í búðunum, og breidt vandlega yfir, en liðsmenn söknuðu fyrirliðans, ástvinar *Aresar,* og reikuðu híngað og þángað um herbúðirnar og börðust ekki. En *Akkear* geingu áfram, og var sem öll jörðin væri að brenna af eldi: jörðin stundi undir þeim, eins og hún stynur fyrir enum þrumuglaða *Seifi,* þegar hann í reiði sinni lýstur jörðina alt í kríng um *Týfon* á *Aríma*-fjöllum, þar er mælt er að sè bæli *Týfons:* í þá líkíng stundi jörðin þúngan undir fótum þeirra, þá er þeir geingu, og bar þá mjög skjótt yfir völlinn.

Sendigyðjan, hin vindfætta *Íris,* kom frá *Seifi* ægisskjalda með ófagnaðar-tíðindi til *Trójumanna.* Þeir voru þá að mæla málum sínum við hallardyr *Príamuss;* voru þángað allir samankomnir, bæði úngir og gamlir. Hin fóthvata *Íris* gekk til þeirra, og gerði sig líka í máli *Polítesi Príamssyni;* hann

var sjónvörður *Trójumanna,* og sat efst uppi á haugi *Esýets* hins gamla, því hann treysti á fráleik sinn; þaðan gætti hann að, hve nær *Akkear* mundu dynja frá skipunum. Í hans líki mælti hin fóthvata *Íris:* „Gamli maður, ávalt hefir þú gaman af endalausum ræðum, jafnt nú sem fyrr, meðan friður var. En nú er upp risinn óvægur ófriður. Margsinnis hefi eg þar komið, er menn hafa barizt, en aldrei hefi eg enn sèð svo frítt og svo mikið lið. Þeir koma neðan völlinn til að herja á borgina, næsta jafnmargir laufblöðum eða sandi. En þèr ræð eg einkum, *Hektor,* að fara svo að: Með því hèr eru margir liðsmenn saman komnir í hinni miklu *Príamsborg,* og tala ýmsir ýmsum túngum, er mannmergðin er mikil, þá skal sèrhverr fyrirliði fylkja landsmönnum sínum, þeim er hann ræður yfir, skipa fyrir þeim, og fara með þá út af borginni“. Þannig mælti hún, en *Hektor* tók vel eptir því, er gyðjan sagði, og brá þegar þínginu, en menn þustu til vopna; öllum hliðum var slegið opnum, og fólkið ruddist út, fótgaungumenn og riddarar; reis þá upp mikill gnýr.

Fyrir framan borgina er hár hóll, lángt úti á vellinum; má hlaupa umhverfis í kríng um hann; þenna hól kalla menn *Batíu,* en hinir ódauðlegu guðir kalla hann haug hinnar stórhlaupasömu *Myrínu.* Þar var *Trójumönnum* fylkt í það sinni, og liðsmönnum þeirra. Fyrir *Trójumönnum* var hinn mikli, hjálmkviki *Hektor Príamsson;* með

honum brynjuðust lángflestir menn og hraustastir, þeir voru spjótmenn góðir. Fyrir *Dardansmönnum* var hinn vaski *Eneas Ankísesson;* hin ágæta *Afrodíta* hafði átt hann við *Ankíses* á hálsum *Ída*-fjalls; þar hvíldi gyðjan hjá dauðlegum manni. Eigi var hann einn fyrir liðinu; með honum voru tveir synir *Antenors, Arkelokkus* og *Akamant;* þeir kunnu vel til alls hernaðar. Þeir auðugu *Tróar,* er bjuggu í *Selju* undir neðstu rót *Ída*-fjalls, og drukku hið bláa vatn úr *Esepus:* fyrir þeim var *Pandarus, Lýkáons* frægi son; honum hafði sjálfur *Appollon* gefið boga. Þeir sem bjuggu í *Adrestíu* og í *Apesus*-fylki, í *Pitýju,* og á hinu háfa *Teríu*-fjalli: fyrir þeim var *Adrestus* og hinn línbrynjaði *Amfíus;* þeir voru synir *Meróps Perkósussonar,* er allra manna var spávitrastur; hann bannaði sonum sínum að fara í hinn mannskæða ófrið, en þeir gegndu honum ekki, því valkyrjur hins dimma dauða ráku eptir þeim. Þeir sem bjuggu í kríng um *Perkótu* og *Praktíus,* og áttu heima í *Sestus* og *Abýdus* og hinni ágætu *Arisbu:* fyrir þeim var *Asíus Hyrtaksson,* og var í öndverðu brjósti manna sinna; þann *Asíus Hyrtaksson* báru rauðir hestar, miklir vexti, frá *Arisbu* við *Selles*-fljót. *Hippopóus* var með sveitir hinna spjótfimu *Pelasga,* þeirra er bjuggu í hinni landfrjófu *Larissu:* fyrir þeim voru þeir *Hippopóus* og *Pýleus,* afspríngur *Aresar;* þeir voru báðir synir *Lepuss Pelasga Tevtamssonar. Akamant* og kappinn *Píróus* komu með alla þá *Þraka,*

er búa fyrir innan hið fagurrennanda *Hellusund.* *Evfemus* var fyrirliði hinna hervönu *Kíkóna;* hann var sonur *Tröyzeníuss Keassonar,* fóstra *Seifs.* *Pyrekmes* kom með hina bogsterku *Peóna;* þeir komu lángt að, frá *Amýdonsborg* við hið straumvíða *Axíus*-fljót, er rennir hinu fegursta vatni yfir jörðina. Hinn loðhjartaði *Pýlemon* var fyrir *Paflagónum;* hann var frá *Enetalandi;* þaðan er komið kyn enna viltu hálf-asna. *Paflagónar* bjuggu umhverfis *Kýtórus* og *Sesamus;* þeir áttu nafnkunna bústaði við *Parpeníus*-fljót í *Krómnu,* á *Strönd* og á hinum háfu *Rauðhólum.* *Ódíus* og *Epístrofus* voru fyrir *Halizónum;* þeir komu lángt að, frá *Alýbu;* þar hefir silfur upptök sín. *Krómíus* og fuglaspámaðurinn *Ennómus* voru fyrir *Mýsum;* þó gat *Ennómus* ekki með fuglaspá sinni forðazt hina svörtu *Valkyrju,* því hinn fóthvati *Eaks-niðji* drap hann í fljótinu, þar sem hann banaði öðrum fleirum *Trójumönnum.* *Forkunnur* og *Askaníus* voru fyrir *Frýgum;* þeir voru lángt að, frá *Askaníu,* og ólmir bardagamenn. Þeir rèðu fyrir *Meónum,* *Mestles* og *Antífus Talemonssynir;* þeir voru fæddir af *Gýgjar*-vatni; þeir komu með þá *Meóna,* er fæðzt höfðu undir *Tmólus*-fjalli. *Nastes* var fyrir *Kárverjum;* þeir töluðu útlenzka túngu; þeir bjuggu í *Míletus,* á hinu laufþètta *Furufjalli,* við *Meanders*-strauma, og á hinum háfu *Mýkale*-tindum: fyrir þeim voru þeir *Amfímakkus* og *Nastes.* *Nastes* og *Amfímakkus* voru synir *Nomíons;* hann fór og

í herför þessa, og bar gull á sèr, eins og úng mær, og frelsaði það hann ekki, fávísan mann, frá döprum dauða, því hann fèll fyrir hinum fóthvata *Eaksniðja* í fljótinu, en hinn herkæni *Akkilles* náði gullinu. *Sarpedon* og hinn ágæti *Glákus* voru fyrir *Lykíu*-mönnum; þeir voru komnir lángt að, frá *Lykíu*, frá hinu sveipótta *Ksantus*-fljóti.

# ÞRIÐJI ÞÁTTUR.

*Eiðar. Helena á borgarveggi. Einvíg Alexanders og Meneláss.*

En er þeir höfðu skipað sèr í fylkíngar, hverjir með sínum fyrirliðum, þá geingu *Trójumenn* með glaum og háreysti, sem fuglar, í þá líking sem glaumur mikill verður undir himinhvolfinu af trönum, þeim er flúið hafa undan vetrarnauð og stórhríðum, fljúga þær þá með glaumi miklum út að *Ókeans*-straumum, færa á hendur *Pygmeum* bana og feigð, og hefja að morgni dags skæða rimmu. En *Akkear* geingu þegjandi, en blèsu af hugmóði, höfðu þeir á því allmikinn hug að duga hverr öðrum. Svo sem sunnanvindur sveipar fjallshnúka þoku svo þykkri, að ekki má frá sèr sjá leingra en steinsnar; er sú þoka smalamönnum allmeinleg, en haglegri þjófnum, enn þó nótt væri: í þá líking reis

upp rykmökkur mikill undan fótum þeirra, þá er þeir geingu, og bar þá mjög skjótt yfir völlinn. En er þeir áttu skamt hvorir til annara, þá var hinn goðumlíki *Alexander* fremstur í flokki *Trójumanna;* hann hafði á herðum sèr pardus-feld, sveigðan boga og sverð, en í hendi sèr veifaði hann tveimur spjótum eirslegnum; hann skoraði á hvern af *Argverjum,* þann er hraustastur væri, að berjast við sig til þrautar í einvígi. En er *Menelás,* ástvinur *Aresar,* gat að líta, hvar *Alexander* gekk fremstur í flokki, og heldur stórstígur, þá varð hann glaður við, svo sem ljón verður fegið, þegar það hittir fyrir sèr mikla bráð, og finnur annaðhvort hyrndan hjört eða villigeit, þá hvomar það í sig gríðarlega, enn þótt fljótir hundar og hraustir sveinar vilji reka það í burtu: svo varð *Menelás* glaður, er hann kom auga á hinn goðumlíka *Alexander,* hugsaði nú með sèr, að hann skyldi hefna sín á svikaranum, og stökk þegar af kerrunni til jarðar í herklæðunum. En er hinn goðumlíki *Alexander* sá, að *Menelás* var frammi í brjósti fylkíngar, þá skelfdist hjarta hans, hörfaði hann þá aptur í flokk fèlaga sinna og forðaði lífi sínu. Eins og maður, sem sèr dreka í fjallakvos nokkurri, hrökkur frá þaðan, skjálfandi á fótum, og hörfar á bak aptur, með fölar kinnar: svo gekk hinn goðumlíki *Alexander* aptur inn í flokk hinna framgjörnu *Trójumanna* af ótta fyrir *Atreifssyni.* En er *Hektor* sá hann, átaldi hann *Alexander* með smánarorðum:

„Ólánsmaður ertu, *París,* manna fríðastur sýnum, en hleypur sem galinn eptir hverri konu og ginnir þær. Eg vildi óska, að þú hefðir aldrei verið kvennnýtur, og hefðir dáið ókvæntur. Þess vildi eg óska, og það hefði verið þèr miklu betra, en að hafa á þèr spott og fyrirlitníng annara manna. Hinir hárprúðu *Akkear,* sem gera sèr í hug, að þú munir vera hraustasti maður til forgaungu, er þú ert svo fríður yfirlits, munu víst hlæa dátt, þegar eingi reynist kjarkur í þèr, og ekkert þrek. Eða varst þú það, ragmenni þitt, sem rèðst til þín örugga fylgdarmenn, sigldir um haf á haffærum skipum, fórst á fund útlendra manna, og namst í burtu fríða konu, venzlaða hraustum hermönnum, til að verða föður þínum og borginni og allri þjóðinni til tjóns, óvinum til fagnaðar, en sjálfum þèr til niðurlægíngar og svívirðu? Viltu ekki bíða eptir *Menelási,* ástvini *Aresar?* Þá muntu komast að raun um, hvað manni það er, sem átti þá úngu konu, er þú hefir nú tekið. Það hygg eg, að þá muni ekki hörpuslátturinn stoða þig, og ekki ástgjafir *Afrodítu,* hárið og fríðleikurinn, þegar þú værir að veltast í moldinni. Væru *Trójumenn* ekki svo huglausir, sem þeir eru, mundir þú fyrir laungu kominn í grjótstakk fyrir slysin, sem af þèr hafa hlotizt“. Hinn goðumlíki *Alexander* svaraði honum: „Öll von er, þó þú ávítir mig, og er það ekki um skör fram. Ávalt er hjarta þitt sem ósljóf öxi, sú er smýgur í gegnum trèð, í höndum þess

manns, er laglega kann að höggva skipatimbur, og ríður hún því betur að, sem maðurinn beitir sèr betur: svo er hugurinn í brjósti þèr öruggur og óskelfur. Bregð mèr ekki um ástgjafir hinnar gullfögru *Afrodítu*. Eingi skyldi drepa hendi við þeim veglegu gjöfum, er guðirnir veita manni, því þær tekur eingi af sjálfum sèr. Nú ef þú vilt, að eg gángi aptur í orustu og berjist, þá lát aðra *Trójumenn* og alla *Akkea* setjast, en látið okkur *Menelás*, ástvin *Aresar*, gánga fram og skiptast vopnum við, og berjast um *Helenu* og alt fèð: hvorr okkar sem sigrar og ber hærra hlut, sá skal taka alt fèð og fá konuna, og hafa heim með sèr; en hinir geri vináttu milli sín og tryggar sættir; skuluð þèr búa í hinni landfrjófu *Trójuborg*, en hinir skulu fara aptur til hins hestauðga *Argverjalands* og hins kvennprúða *Akkealands*". Þannig mælti hann, varð *Hektor* mjög glaður, er hann heyrði orð hans, gekk fram milli herfylkínganna, hèlt um mitt spjótskaptið og þokaði aptur á bak flokkum *Trójumanna*, settust þeir þá allir niður; en hinir hárprúðu *Akkear* skutu á hann á meðan, sumir af bogum með örvum, sumir köstuðu steinum. Þá kallaði *Agamemnon* herkonúngur hátt: „Hættið, *Argverjar*, skjótið ekki, sveinar *Akkea!* Hinn hjálmkviki *Hektor* vill mæla nokkuð". Svo mælti hann, en þeir lèttu atsókninni, og höfðu þegar hljótt um sig. Þá mælti *Hektor*, svo hvorirtveggju heyrðu: „Heyrið, *Trójumenn* og

þèr vel brynhosuðu *Akkear*, eg vil segja yður orð *Alexanders*, er þessi rimma hefir af risið. Hann biður aðra *Trójumenn* og alla *Akkea* að leggja af sèr hin fögru vopn niður á hina margfrjófu jörð, en hann skuli sjálfur og *Menelás*, ástvinur *Aresar*, gánga fram og berjast tveir einir um *Helenu* og alt fèð: hvorr þeirra, sem sigri og beri hærra hlut, skuli taka alt fèð og fá konuna og hafa heim með sèr, en hinir gera frið milli sín og veita hvorir öðrum eiðfestar trygðir". Þannig mælti hann, en þeir höfðu allir hljótt um sig og þögðu. Þá mælti hinn rómsterki *Menelás:* „Heyrið nú einnig mál mitt, því næst geingur harmurinn mèr til hjarta. Vona eg, að nú skilji með ykkur, *Argverjum* og *Trójumönnum;* hafið þèr margt ílt þolað sökum rimmu þeirrar, er eg hefi vakið, en *Alexander* haft upptökin til. Deyi sá okkar, er dauði og skapadægur er ætlað, en þèr hinir skiljist að sem bráðast. Komið nú með lömb tvö, hvítt hrútlamb og svarta gimbur, til fórnar *Jörð* og *Sól*, en vèr skulum koma með annað hrútlamb *Seifi* í fórn. Sækið svo hinn sterka *Príamus*, að hann geri sættina sjálfur, því synir hans eru yfirgángsmenn miklir og ótrúir; eingi skal ónýta sáttmál *Seifs* með offrekju. Hjörtu úngra manna eru jafnan óstöðug; en sè hinn gamli maður sjálfur við staddur, þá hefir hann forsjá og framsýni til þess, að hvorumtveggjum gegni sem allra-bezt". Þannig mælti hann, en *Akkear* og *Trójumenn* urðu glaðir, væntu nú, að enda

mundi taka hinn hörmulegi ófriður: þokuðu nú kerrunum aptur, hverri í sína röð, og stigu sjálfir af, fóru úr vopnum sínum, og lögðu þau niður á jörðina, hver skamt frá öðrum, og var skamt bil milli hvorratveggju. *Hektor* sendi tvo kallara til borgarinnar, að sækja lömbin í flýti og kalla á *Príamus*. En *Agamemnon* konúngur sendi *Taltybíus* til enna hveldu skipa og bað hann sækja lambið, en hann gerði, sem hinn ágæti *Agamemnon* bauð.

Á meðan kom sendigyðjan *Íris* til ennar hvítörmuðu *Helenu* í líki mágkonu hennar *Laódíku;* sú var fríðust af dætrum *Príamuss;* hana átti hinn voldugi *Helíkáon Antenorsson.* Hún fann hana í stofu; var hún þar að vefa mikinn vef, tvískikkju af purpura; óf hún þar á marga bardaga enna reiðkænu *Trójumanna* og hinna eirbrynjuðu *Akkea,* er þeir höfðu átt í hennar vegna af völdum *Aresar.* Hin fóthvata *Íris* gekk til hennar og mælti: „Kom, kæra frú, að sjá hin frábæru afreksverk enna reiðkænu *Trójumanna* og hinna eirbrynjuðu *Akkea.* Fyrir stundu voru þeir fúsir á mannskæðan ófrið, og gerðu hvorir öðrum grátlega styrjöld á vellinum, en nú sitja þeir þegjandi, því ófriðnum er lokið; þeir styðjast fram á skjöldu sína, en hin laungu spjót standa hjá þeim í vellinum. En þeir *Alexander* og *Menelás,* ástvinur *Aresar,* ætla að berjast um þig með laungum spjótum, og áttú að verða kona þess, er sigurinn hlýtur“. Með þessum orðum kom gyðjan í brjóst henni sætri laungun eptir

hennar fyrra manni, eptir borginni og foreldrum hennar. Hún lagði þegar yfir sig hvíta línskikkju, gekk út úr herberginu og feldi mjúkt tár af augum. Eigi var hún ein, henni fylgdu tvær þjónustumeyar, *Epra Pitteifsdóttir* og hin mikileyga *Klýmena;* þær komu brátt þángað, þar sem *Skehlið* voru. Þeir höfðíngjarnir, *Príamus, Panþóus, Þýmeytes, Lampas, Klytíus,* og *Híketáon,* afspríngur *Aresar,* svo og þeir *Úkalegon* og *Antenor,* er báðir voru vitrir menn, sátu uppi yfir *Ske-hliðum;* þeir höfðu þá lagt af hernað fyrir elli sakir, en voru ágætir málsnillíngar, líkir eikifroskum, þeim er sitja í skógarviði og láta til sín heyra unaðsfulla rödd. Slíkir voru höfðíngjar *Trójumanna,* þeir er uppi sátu í turninum. En er þeir sáu *Helenu* gánga upp í turninn, töluðu þeir hljótt sín í milli, og sögðu: „Eigi er það láandi, þó *Trójumenn* og hinir fagurbrynhosuðu *Akkear* hafi lángan tíma raunir þolað fyrir sakir slíkrar konu, þar sem hún er mjög lík í sjón hinum ódauðlegu gyðjum. En ei að síður, þó hún sè svo fríð, þá fari hún heim aptur á skipunum, og verði hèr ekki eptir, oss til óheilla og börnum vorum eptir oss“. Svo mæltu þeir. Þá kallaði *Príamus* á *Helenu:* „Kom híngað, dóttir góð, og sezt frammi fyrir mèr, svo þú sjáir þinn fyrra mann, og mága þína og vini. Ekki ásaka eg þig, guðina ásaka eg, þá er sent hafa á hendur mèr hinn grátlega ófrið við *Akkea.* Seg mèr, hvað þessi hinn furðulega stóri

maður heitir, sem hèr er, hverr hann er, sá hinn akkneski maður, hinn ágæti og mikli. Að vísu eru aðrir menn meiri vexti en hann, en aldrei hefi eg augum litið jafnfríðan mann eða jafn-öldurmannlegan; því hann er líkur konúngmanni". Hin ágæta kona *Helena* svaraði honum: „Kæri tengdafaðir, bæði áttu að mèr virðíngu skilið og lotníngu. Eg vildi óska, að eg hefði heldur dapran dauða kosið, heldur en að fylgjast híngað með syni þínum, og skilja við brúðarsal minn og frændur mína, mína ástkæru dóttur, og jafnöldrur mínar; er mjög voru elskuverðar. En ekki varð af því samt, og því er eg aldrei ógrátandi. Nú mun eg segja þèr, það er þú spyr og þig forvitnar að vita: þessi maður er hinn víðlendi *Agamemnon Atreifsson;* hann er hvortveggja, góður konúngur og hraustur hermaður. Hann var mágur minn, ósvífinnar konu; en nú er það af, sem áður var". Þannig mælti hún, en hinn gamli maður undraðist hann og tók til orða: „Sæll ertu, *Atreifsson,* og góðu heilli borinn og hamíngjumaður mikill, er svo margir sveinar *Akkea* gáfu sig undir vald þitt. Eg kom og forðum til hins vínviðótta *Frýgalands;* þar sá eg flesta *Frýga* saman komna; það var hervagnalið, menn *Otreifs* og hins ágæta *Mygdons;* þeir höfðu þá herbúðir sínar á *Sangars*-bökkum; var eg þá í her þeirra sem einn af liðsmönnum; það var í þann tíð, er hinar manngildu *Skjaldmeyar* komu. Þó voru *Frýgar* þá ekki eins margir

og hinir snareygu *Akkear* eru“. Því næst sá hinn gamli maður *Odysseif;* þá spurði hann: „Seg mèr og, dóttir kær, um þenna mann, hver sá er; hann er að vísu minni vexti en *Agamemnon Atreifsson,* en hann er að sjá herðabreiðari og bríngubreiðari; vopn hans liggja á hinni margfrjófu jörð, en sjálfur geingur hann um fylkíngar kappanna, sem hrútur: virðist mèr hann líkur þèttfíldum forustusauð, sem geingur í gegnum stóra hjörð hvítra ásauða“. *Helena,* dóttir *Seifs,* svaraði honum: „Þessi maður er hinn ráðagóði *Odysseifur Laertesson;* hann er uppfæddur í hinu mjög grýtta *Íþökulandi,* og kann alls konar vèlar og viturleg ráð“. Hinn vitri *Antenor* ansaði henni: „Satt er það, er þú sagðir þar, kona. Því eitt sinn kom hinn ágæti *Odysseifur* híngað ásamt með *Menelási,* ástvini *Aresar,* í erindagjörðum þinna vegna. Þá gisti eg þá báða og veitti þeim góðar viðtökur í húsi mínu; lærði eg þá að þekkja vaxtarlag og ráðkænsku beggja þeirra. En þegar þeir komu þar, er *Trójumenn* voru saman komnir, og er þeir stóðu báðir, þá var *Menelás* hærri á herðarnar, en er þeir sátu báðir, þá var *Odysseifur* öldurmannlegri. En er þeir báru upp erindi sín og viturlegar tillögur í fjölmenninu, þá var *Menelás* gagnorður í ræðu sinni, var hann fátalaður, en mjög slèttmáll; því þó hann væri ýngri, þá var hann ekki margorður og ekki óorðhittinn. En í hvert sinn er hinn margráðugi *Odysseifur* spratt upp, þá stóð hann

fyrst, horfði niður fyrir sig og blíndi á jörðina, bærði sprotann hvorki fram nè aptur, heldur hèlt honum fast, svo hann bifaðist ekki; var hann þá líkur manni þeim, er ekki kann sig, og mundir þú ætla, að þar stæði eitthvert fól eða eintómt fífl. En er hann skaut upp frá brjósti sèr röddinni miklu, þá drifu orðin sem snæfok á vetrardegi, og þurfti þá eingi maður við *Odysseif* að keppa úr því; hættum vèr þá að furða oss á útliti *Odysseifs*, eins og vèr áður gerðum, þá vèr litum hann". Í þriðja lagi, þá hinn gamli maður sá *Ajant*, þá spurði hann: „Hverr er nú hinn akkneski maður, sá hinn ágæti og mikli, er enn er hèr, hærri vexti og herðabreiðari, en aðrir *Argverjar?*" Hin síðmöttlaða *Helena*, sú hin ágæta kona, svaraði honum: „Þessi maður er hinn afar-stóri *Ajant*, víggarður *Akkea;* en hins vegar í flokki *Krítarmanna* stendur *Idomeneifur*, svo sem væri hann einhverr af goðunum, og safnast í kríng um hann fyrirliðar *Kríteyínga*. *Menelás*, ástvinur *Aresar*, veitti honum opt gistíng í höll vorri, þá hann kom frá *Krít*. Nú sè eg alla aðra snareyga *Akkea*, er eg gæti gert deili á og nafngreint, nema tvo herforíngja get eg ekki komið auga á, hinn reiðtama *Kastor* og hinn ágæta hnefleikara *Polýdevkes*, albræður mína, sammæðra mèr. Hvort fylgdust þeir ekki með öðrum frá hinni fögru *Lakverjaborg?* Eða fylgdust þeir með híngað á enum haffæru skipum, en vilja nú ekki gánga í orustu

með öðrum köppum, af því þeim rís hugur við þeirri svívirðíngu og smán, er á mèr liggur?“ Þannig mælti hún, en þeir hvíldu þá í skauti hinnar lífgandi jarðar heima í *Lakverjaborg* á föðurjörðu sinni.

Kallararnir fóru nú um borgina með hina helgu dóma, tvö lömb og hressandi vín, ávöxt jarðarinnar, í geitbelg; en kallarinn *Ídeus* bar skínanda skaptker og drykkjarker af gulli; hann gekk til hins aldraða konúngs, og bað hann koma með þessum orðum: „Upp, *Laómedonsson!* Höfðíngjar hinna reiðkænu *Trójumanna* og eirbrynjuðu *Akkea* biðja þig að gánga ofan á völlinn, svo að þèr gerið þar eiðfest sáttmál yðar í milli. En *Alexander* og *Menelás,* ástvinur *Aresar,* ætla að berjast um konuna með laungum spjótum; skal konan fylgja þeim, er sigur hefir, en hinir skulu gera vináttu sín í milli og binda tryggar sættir hvorir við aðra; munum vèr þá búa í hinni landfrjófu *Trójuborg,* en *Akkear* fara heim aptur í hið hestauðga *Argverjaland,* og til hins kvennprúða *Akkealands*“. Þannig mælti hann, en hinn gamli maður varð óttafullur. Hann bað sveina sína beita hestum fyrir kerru sína, og gerðu þeir skjótlega, það er hann bauð. *Príamus* steig upp í kerruna og hèlt stríðum taumunum; stè þá *Antenor* upp í hinn fagra kerrustól hjá honum. Þeir fóru út um *Ske-hlið* og stýrðu hinum fráu hestum fram á völlinn. En er þeir komu til *Trójumanna* og *Akkea,* stigu þeir ofan af kerrunni niður á hina

margfrjófu jörð, geingu síðan í kvína milli *Trójumanna* og *Akkea*. Þá reis upp herkonúngurinn *Agamemnon*, þá reis og upp hinn fjölráði *Odysseifur*, en hinir ágætu kallarar færðu þángað hina helgu dóma, heltu saman víninu í skaptkerið, jusu síðan vatni á hendur konúngunum. Þá brá *Atreifsson* saxi, er jafnan hèkk við hinar stóru sverðslíðrir hans, og sneið hárlokka af höfðum lambanna, síðan skiptu kallararnir þeim meðal höfðíngja *Trójumanna* og *Akkea*. Þá fórnaði *Atreifsson* höndum upp, og bað hástöfum: „Faðir *Seifur*, þú sem ríkir á *Ídafjalli*, þú hinn vegsamlegasti og mesti! Þú *Helíus*, sem alt sèr og alt heyrir! Þèr *Fljót*, og þú *Jörð*, og þið tvö, sem hegnið mönnum þeim, er máttlausir hvíla í undirheimi, ef nokurr þeirra hefir svarið meinsæri, verið hèr vottar að, og verndið hið eiðfesta sáttmál: Ef *Alexander* drepur *Menelás*, þá skal hann eignast *Helenu* og alt fèð, en vèr skulum fara heim aptur á hinum haffæru skipum. En ef hinn bleikhári *Menelás* drepur *Alexander*, þá skulu *Trójumenn* skila *Helenu* aptur og öllum fjárhlutunum, og gjalda *Argverjum* bætur, svo þeir sèu vel sæmdir af; skulu þær bætur vera til minnis eptirkomandi mönnum. En ef *Príamus* og *Príamssynir* vilja ekki gjalda mèr bæturnar, ef *Alexander* fellur, þá mun eg vera hèr kyrr eptir og berjast til bótanna, uns eg fæ ófriðnum af lokið“. Að því mæltu skar hann lömbin á háls með hinu harða eirvopni, og lagði þau á jörðina; þau sprikl-

uðu, en voru þó örend, því eirvopnið hafði tekið frá þeim alt fjör. Síðan jusu þeir vín úr skaptkerinu á drykkjarkerin, og dreyptu, og hètu á hina eilífu guði, og tók hverr af *Akkeum* og *Trójumönnum* svo til orða: „*Seifur,* þú hinn vegsamlegasti og mesti, og þèr aðrir ódauðlegir guðir! Hvorir okkar sem brjóta á móti þessu eiðfesta sáttmáli, fljóti heili þeirra til jarðar, eins og vín þetta, heili þeirra sjálfra og barna þeirra, en konur þeirra verði öðrum mönnum háðar“. Svo mæltu þeir, en *Kronusson* lèt ekki ósk þeirra verða framgeinga. Þá tók *Príamus Dardans-niðji* til orða: „Heyrið mèr, þèr *Trójumenn* og vel brynhosuðu *Akkear,* nú fer eg aptur til hinnar veðurnæmu *Ilíonsborgar,* því eg get ei af mèr feingið að horfa á með eigin augum son minn berjast við *Menelás,* ástvin *Aresar.* Það veit *Seifur* og aðrir ódauðlegir guðir, hvorum þeirra á feigðar auðið að verða“. Að því mæltu lèt hinn guðumjafni kappi lömbin upp á kerruna, stè svo sjálfur upp í, og hèlt hestunum aptur með taumunum; steig þá *Antenor* upp í hinn fagra kerrustól til hans; fóru þeir svo báðir aptur til *Ilíonsborgar.*

*Hektor Príamsson* og hinn ágæti *Odysseifur* mældu fyrst út orustustaðinn, tóku síðan hluti, lètu í eirhjálm og hristu, til að vita, hvorr þeirra fyrri skyldi skjóta enu eirslegna spjóti. Þá fórnuðu menn höndum til guðanna og báðust fyrir, og tók sèrhverr af *Akkeum* og *Trójumönnum* svo til orða: „Faðir

*Seifur,* þú sem ríkir á *Ída*-fjalli, þú hinn vegsamlegasti og mesti! Hvorr þeirra sem valdið hefir þessum hernaði meðal hvorratveggju, lát þann örendan fara niður í *Hadesar* híbýli, en veit, að vinátta og tryggar sættir komist á með oss“. Þannig mæltu þeir, en hinn mikli, hjálmkviki *Hektor* hristi hjálminn, og horfði aptur fyrir sig á meðan; stökk þá út hlutur *Parisar.* Síðan settust menn niður, hverr í sínum flokki, þar sem hinir lèttfættu hestar og hin fjölskreyttu vopn þeirra voru. En hinn ágæti *Alexander,* eiginmaður hinnar hárprúðu *Helenu,* fór í hinn fagra herbúnað: fyrst lagði hann fagrar brynhosur um fótleggi sèr, kræktar silfurlegum öklapörum; því næst færði hann sig í brynju *Lýkáons,* bróður síns, og var hún honum mátuleg; hann varpaði um herðar sèr silfurnegldu eirsverði, og því næst stórum og þykkum skildi; á hið tígulega höfuð sitt lèt hann velgerðan hjálm fextan, og slútti faxburstin fram óttalega; þá tók hann í hönd sèr sterkt spjót, sem honum var greiphæft. Hinn vígkæni *Menelás* herklæddi sig á sama hátt. En er þeir höfðu herklæðzt sinn hvoru megin í liðinu, þá geingu þeir fram í kvína milli *Trójumanna* og *Akkea;* var augnaráð þeirra ógurlegt; urðu hinir reiðkænu *Trójumenn* og hinir fagurbrynhosuðu *Akkear* forviða, er þeir sáu þá. Nú stóðu þeir báðir á hólmgaungustaðnum, skóku spjótin, og höfðu heiptarhug hvorr til annars. *Alexander* skaut fyrst lángskeptu spjóti, og kom í hinn krínglótta skjöld

*Atreifssonar,* og gekk ekki í gegnum eirið, því spjótsoddurinn bognaði í enum sterka skildi. *Menelás Atreifsson* reiddi því næst upp eirvopnið, og hèt á föður *Seif:* „Voldugi *Seifur,* veit, að eg hefni mín á hinum ágæta *Alexander,* er að fyrra bragði gerði á hlut minn, og lát hann falla fyrir mèr, svo einnig hverr eptirkomandi manna fælist frá því að misbjóða gestvini sínum, þeim er veitir honum góðar viðtökur". Að því mæltu reiddi hann aptur hið lángskepta spjót, og skaut; kom spjótið í hinn krínglótta skjöld *Príamssonar,* og flaug hið sterka spjót í gegnum hinn fagra skjöld, og gekk inn úr hinni gersemlegu brynju, og skar spjótið sundur kyrtilinn þar fyrir innan við huppinn; en *Paris* lèt hallast undan laginu og forðaði sèr svo dimmum dauða. Þá brá *Atreifsson* hinu silfurneglda sverði, reiddi sig til höggs, og hjó í hjálmbóluna, brotnaði sverðið á henni í þrjá og fjóra hluti, og fèll úr hendi hans. Þá leit *Atreifsson* upp í hinn víða himin, og kveinaði: „Faðir *Seifur,* eingi goðanna er skaðvænlegri, en þú! Eg þóktist nú viss um, að eg mundi hefna mín á *Alexander* fyrir illvirki hans; en nú brotnaði sverðið í höndum mèr, og spjótið flaug til ónýtis úr hendi mèr, svo eg særði hann ekki". Að því mæltu stökk hann að honum, og greip um hinn þèttfexta hjálm hans, snèri sèr við, og ætlaði að draga hann til hinna fagurbrynhosuðu *Akkea;* hertist þá að hans mjúka hálsi hið fjölsaumaða ólarband, er lá úr hjálminum

undir kverkina, og lá við sjálft, að bandið mundi kyrkja hann; og þar hefði *Menelás* náð honum til sín og feingið hinn frægasta sigur, hefði ekki *Afrodíta,* dóttir *Seifs,* vitað glögt, hvað leið, og slitið hina sterku nautsleðurs-ól, svo hann varð laus; fylgdi þá hjálmurinn tómur hinni þykku hönd *Menelásar;* veifði kappinn þá hjálminum í kríng og þeytti honum til hinna fagurbrynhosuðu *Akkea,* en hinir trúu fèlagar hans tóku upp hjálminn. Stökk þá *Menelás* enn aptur fram, og vildi drepa *Paris* með hinu eirslegna spjóti.

*Afrodíta* rykti *Parisi* burt; veitti henni það mjög hægt, er hún var gyðja; hún brá yfir hann miklum myrkva og kom honum inn í herbergi sitt; þar var sætur ilmur og góð ángan. Síðan fór hún að kalla á *Helenu,* og fann hana uppi í hinum háfa turni; voru þar margar tróverskar konur hjá henni. Hún tók með hendi sinni í hina ilmandi skikkju hennar og hristi, og mælti til hennar; var hún þá lík aldraðri konu nokkurri, er kunni ullarvinnu; sú hafði verið vön að vinna fallega ullarvinnu hjá henni, meðan *Helena* bjó í *Lakverjaborg,* og hafði *Helena* hana í mestu kærleikum. Í hennar líki talaði *Afrodíta* til *Helenu,* og mælti: „Kom þú með mèr! *Alexander* biður þig að koma heim; hann er nú í herbergi sínu á hinum fagurrenda legubekk, allur ljómandi af fegurð og klæðum; ekki mundi þèr í hug detta, að hann væri kominn úr einvígi, heldur að hann ætlaði í dansleik, eða

sæti þar nýkominn úr dansi". Þannig mælti hún, og hrærði hjartað í brjósti hennar. En er *Helena* sá hinn fagra háls gyðjunnar, hin lystilegu brjóst hennar og hin ljómandi augu, þá varð hún forviða, tók til orða, og mælti: „Þú óheilla-gyðja, hví viltu gabba mig svo? Eða ætlarðu að flytja mig enn leingra í burtu, til einhverra fjölbygðra borga, annaðhvort í *Frýgalandi* eða hinu fagra *Meónalandi,* ef þú átt þar einhvern kæran þèr mæltra manna, sem annarstaðar? Ertu nú komin híngað til mín, vèlafull í huga, einmitt sökum þess að *Menelás* hefir sigrað hinn ágæta *Alexander,* og vill flytja mig öllum leiða heim til sín? Far þú til hans og sit hjá honum, vík burt af vegi guðanna, og stíg aldrei fótum framar á *Ólymp;* stumra heldur alt af yfir honum, þar til er hann gerir þig að konu sinni, eða hann lætur þig vera ambátt sína. En eg mun ekki fara þángað til að búa um rekkju hans; það væri von, þó mèr yrði láð það; allar tróverskar konur munu álasa mèr fyrir það á eptir, og þar að auk liggja óbættir harmar á hjarta mèr". Hin ágæta *Afrodíta* reiddist, og mælti til hennar: „Ert mig ekki, ófyrirlátsama kona, að eg ekki fyrirláti þig í reiði minni, og leggi hèr eptir eins mikið hatur á þig, og eg hefi unt þèr ákaflega hèr til, og veki sárbeittan fjandskap milli hvorratveggju, *Trójumanna* og *Danáa,* og deyir þú svo illum dauðdaga". Þannig mælti hún, en *Helena,* dóttir *Seifs,* varð hrædd; hún gekk af stað þegjandi,

og hafði fyrir andliti sèr hvíta blæu, skínandi; varð eingin af hinum tróversku konum hennar vör, en gyðjan gekk á undan henni. En er þær komu til ennar fögru hallar *Alexanders,* þá fóru þjónustumeyarnar þegar til verka, en hin ágæta kona gekk til hins háþakta svefnherbergis. Hin brosmilda *Afrodíta* tók stól handa henni; bar gyðjan stólinn og setti hann gagnvart *Alexander.* Á þann stól settist *Helena,* dóttir *Seifs* ægisskjalda; hún snèri augum sínum undan og átaldi mann sinn: „Þú ert kominn frá einvíginu! Það væri betur þú hefðir látizt fyrir þeim hinum hrausta kappa, er var frumver minn. Þú hrósaðir því þó áður, að þú værir fremri *Menelási,* ástvini *Aresar,* að styrkleik, handafli og spjótfimi. Far nú, og skora aptur á *Menelás,* ástvin *Aresar,* að berjast við þig! Nei, eg vil heldur ráða þèr að láta vera kyrt, og gera ekki þá heimsku að gánga í orustu móti hinum bleikhára *Menelási;* væri betur, að þú fallir ekki svo skjótt fyrir spjóti hans“. *Paris* svaraði henni aptur, og mælti: „Sær eigi hjarta mitt, kona, með þúngum brígzlum! *Menelás* hafði nú að vísu sigur yfir mèr með tilbeina *Aþenu,* en eg mun annað sinn yfir honum, því guðirnir eru og með mèr. En heyr nú, gaungum til hvílu og njótum yndis saman; því aldrei hefir elskan nokkuru sinni breidt sig svo yfir alt hjarta mitt, jafnvel ekki eptir það eg var nýbúinn að ræna þèr, og eg sigldi burt úr hinni fögru *Lakverjaborg,* á hinum haffæru skip-

um, og hafði við þig samlag og yndi á eynni *Kranáu:* eins og eg elska þig nú, sigraður af sætri eptirlaungun". Svo mælti hann og gekk til hvílu; fór hann á undan, en kona hans fylgdist með honum á eptir; lögðu þau sig þar bæði til svefns á útskornum legubekkjum.

*Atreifsson* gekk híngað og þángað um herinn, eins og óarga-dýr, ef hann gæti nokkurstaðar komið auga á hinn goðumlíka *Alexander.* En eingi *Tróverja* eða hinna frægu liðsmanna gat þá vísað *Menelási,* ástvini *Aresar,* á *Alexander;* var það ekki af vinskap, að þeir leyndu honum; sagt mundu þeir hafa til hans, ef einhverr hefði sèð hann, því allir hötuðu hann jafnt sem hina svörtu *Valkyrju.* Þá tók *Agamemnon* herkonúngur til orða: „Heyrið mál mitt, þèr *Tróverjar* og *Dardanar* og þèr liðsmenn! Það er ljóst, að *Menelás,* ástvinur *Aresar,* hefir haft sigurinn. Skilið nú aptur *Helenu* hinni argversku og fjárhlutum hennar með henni, og gjaldið bætur, svo vèr sèum sæmdir af; skulu þær bætur til minnis vera eptirkomandi mönnum". Svo mælti *Atreifsson,* og rómuðu hinir aðrir *Akkear* mál hans.



# FJÓRÐI ÞÁTTUR.

*Sáttarof. Liðskönnun Agamemnons.*

Guðirnir söfnuðust hjá *Seifi*, og sátu í hinni gulllegu höll. Hin tignarlega *Heba* skeinkti ódáinsvín fyrir þá, en þeir drukku hverir öðrum til af gullnum drykkjarkerum, og horfðu á borg *Tróverja*. Leitaðist *Kronusson* þá þegar við að egna skap *Heru* með móðgunar-orðum, og skaut þessu eitt sinn fram á goðafundinum: „Tvær eru þær af gyðjunum, er veita lið *Menelási, Hera, Argverja*-goð, og *Aþena, Alalkómenu*-goð, sitja þó og þykir gaman að horfa á, en koma hvergi nærri. Ólík er hin brosmilda *Afrodíta* þeim; hún hefir ávalt komið *Parisi* til hjálpar, og ver hann fyrir *Valkyrjunum*, og nú forðaði hún honum, þegar hann sá ekki annað sýnna, en hann mundi deya; en *Menelás*, ástvinur *Aresar*, hafði þó sigurinn. Nú skulum vèr ráðgast um, hversu þessi mál skulu fara, hvort vèr eigum að vekja aptur illan ófrið og ógurlegan hergný, eða skulum vèr koma á vináttu milli hvorratveggju. Sè nú svo, að þetta sè öllum yður kært og ljúft, þá haldist enn mannbygðin í borg *Príamuss* konúngs, en *Menelás* fari aptur heim með *Helenu* hina argversku“. Þannig mælti hann, en þær ýskruðu við, *Aþena* og *Hera*; þær sátu hvor hjá annari og höfðu illan hug til *Trójumanna*. *Aþena* þagði og mælti ekki orð; var hún reið *Seifi*,

